Hønũ/ og * hñs bræde mun hvijla yfer
syndurunum. * 5. Mos. 32. 22/ 23.
8 *Tef ecke ad snua vid til Drottens/
z drag þad ei undañ dag fra deige.
* C. 18. 23/ 24.
9 Þvi Drottens reide mun utfara hast
arlega/z þu munt fyrerfarast a hefnd-
areñar tijma.
10 Reid þig ecke uppa oriettferdugt
gots/ Þvi þad mun * ecke hialpa þier a
þeim deige/ er þier uppaleggst (nockud/)
* Ezech. 7/ 19. etc.
11 Fiuk þu ecke epter hvøriũ vinde/ og
gack þu ecke a hvørn stig/ so giører sa
syndare sem hefur tvær tungur.
12 Vertu stødugur i þijnu forstande /
og þijn ræda sie ein.
13 Vertu fliootur nær þu skallt heyra/
z greid svar fra þier med bidlund.
14 Hafer þu forstand/ þa svara þijnũ
naunga/ eñ ef ecke/ þa lat þijna hønd
vera a þijnũ muñe.
15 Þar er æra z vanæra i ræduñe / og
eirnrar mañeskiu * tunga er heñe ein
hrøsun. * Ordsk. 12/ 13.
16 Lat þig ecke kalla eirn søgvijsañ/z
* svijk aungvañ med þiñe tungu.
* Ps. 15/3.
17 Þvi yfer þioofnũ er skøm til reidu/
z ein vond fordæming yfer einum / sem
hefur tvær tungur.
18 Vertu ecke fævijs i nockrum hlut/
hvørt hñ er stoor eda lijtell.

## VI. Capitule.

Madur skal ecke trua øllũ Vinum
uñ sig/ helldur Spekeñe.

Og verku ecke eirn fiandmadur
i stadeñ vinar / Þvi þa munt
þu erfa eitt vont nafn / ia
skøm og smaan.
2 So mun ogso sa syndare / sm̃ hefur
tvær tungur.
3 Upphef þig sialfañ ecke i þiñar sal
ar raade / ad þijn sal skule ecke slitna.
4 Uppet þijn blod/ sm̃ eirn uxe / z þu
munt missa þijna avexte / og laata þig
sialfañ standa/ sm̃ eitt þurt trie.
5 Ein vond sal fordiarfar þañ sem
a hana/z mun giøra þad/ ad hñ verd-
ur sijnũ fiandmøñum til glede.
6 Eirn sætur barke giører sier marga
vine/z ein veltalande tunga giører/ ad
marger tala einũ vel til aptur.
7 Þar sieu marger / sm̃ hallde frid vid
þig/ eñ þijn° raadgiaf° eirn af þusund.
8 Ef þu villt faa þier eirn vin/ þa faa
þier hñ med reynslu/z trudu hønũ ecke
fyrer þig snarlega.
9 Þvi þar er eirn vinur/ þa stund þad
er hønũ henfugt/z verdur ad vijsu ecke
stadfastur a þiñar þreingingar deige.
10 Og þar er eirn vinur / sem umbreit
est til fiandskapar/z mun openbera þiñ
ar hadungar strijd.
11 Þar er og eirn bord-vinur/z verdur
ad vijsu ecke stadfastur a þiñar þreing-
ingar deige.
12 Og medañ þad geingur þier vel/
mun hañ vera sm̃ þu/ z giøra sig yfer
bodeñ yfer þijna þienara:
13 Eñ ef þu nidurlægest/mun hñ vera
i mote þier/z felast fyrer þiñe asionu/
14 Skil þig vid þijna ovine / z vara
þig vid þijnũ vinum.
15 Eirn trur vinur er ein sterk vernd-
an / hvør þañ hefur funded / hñ hefur
funded eirn fiarsiod.
16 Eirn trufastur vinur kañ ecke ad
betalast med nockrum ødrum hlut/og
hñs soome kañ ecke ad fullvigtast.
17 Eirn trur vinur er lijfsens læknis
doomur / og þeir sm̃ ottast Drottiñ/
munu fiña hañ.
18 Sa sm̃ ottast Drottiñ/ ræker hñs
vinskap riett/ þvi so mun og hñs na-
unge vera sem hñ er.
19 Kiæra barn / utvel lærdoom fra
þijnũ ungdome/z allt til graarra haara
muntu fiña speke.
20 Hallt þier til heñar/ s̃ sa/er plæger
z saaer/z bijd ept° heñar godũ avøxtũ.
21 Þvi þu munt eirn lijteñ tijma hafa
omak ad erfida uppa hana/z snarlega
muntu eta heñar grooda:
22 Hvad strijd er hun fyrer þa olærdu/
z eirn hirdulaus helldur ecke vid hana.

23 Hun mun vera hønū sterk sem eirn proof-steirn / z hañ mun ecke dvelia ad burtkasta heñe.
24 Þvi spekeñ er sem heñar nafn hlioodar / z er ecke openberud þ morgū.
25 Heir mitt barn/z medtak mijna mein ing/ z forakta ecke mitt raad.
26 Og iñset þijnar fætr i heñar stock/ og þiñ hals i heñar klafa.
27 Set þijnar herdar þar under / og ber hana/z gior þig ecke styggañ i giegn heñar bøndum.
28 Halltu þier til heñar i þiñe giørvallre sæl / z vardveit heñar vegu med allre þiñe magt.
29 Spurdu þig fyrer og leita heñar/z hun* mun læta sig þeckia af þier. Og nær þu hefr feinged hana/ þa yfergief hana ecke. * c. 4. 12/ 13.
30 Þvi þu munt ad sijdustu fiña heñar hvijld/z hun mun snuast þier til glede.
31 Og heñar stockur mun verda þier ein sterk verndan/z heñar klafar ad einum ægtætū klædnade.
32 Þvi þar er gylleneskart a heñe / og heñar bønd eru sem fiol-blaar dregell.
33 Þu skallt fæta hana i eirn vegleguñ klædnad/ z hun mun setia eina fagra kronu uppa þig.
34 Vilier þu mitt barn/þa verdur þu lærdur / og gange þier þad til hiarta/ þa muntu verda hyggeñ.
35 Vilier þu giarnañ heyra / þa fær þu hana/z vilier þu hneigia þitt eyra/ þa verdur þu vitur.
36 Statt þu hvar þeir gømlu eru marg er/og sie þar eirn vijs/þa æhæng hønum fastlega.
37 Haf vilia til ad heyra alla gudlega rædu / z læt ecke hygged tal sneida hiaa þier.
38 Sieer þu eirn forstanduguñ mañ/ þa hrada þier ærla til hūs/z læt þiñ foot maa hūs dyra-prøskulld.
39 Yfervega Guds bijfalningar/z minnstu alltijd hūs boda.
40 Hañ mun stadfesta þitt hiarta/og gyrnd þiñar speke mun giefast þier.

## VII. Capitule.

Almeñeleger Lærdoomar / sierdeyles i Husstioornéñe.

Giør ecke illt / og illt mun ecke høndla þig.
2 Halltu þier fra rænglætenu/ so mun syndeñ vijkia fra þier.
3 Miñ son / * saa ecke rænglætesens ploogfør/so muntu vissulega ecke uppskiera sioofallt af þeim. * Ordsk. 22/8. Jer. 4/ 3.
4 Leita ecke epter hææ embætte af einum herra / og ecke epter tignarstool af einum konunge.
5 Læt þier ecke þikia ad þu sierl riettlætur fyrer einū herra/ei helldur ad þu sierl vijs fyrer einum konunge.
6 Leitast ecke epter ad * verda doomare / z þu munder ecke megna ad burtkaka rængar høndlaner: * Luc. 12/14.
7 So þu ecke nockru siñe skuler ottast fyrer eins megtugs ælite / z setia ææsteiting a þiñ slietta veg.
8 Syndga ecke moote eins stadar margfiølda/z gief þig ecke sialfañ ofañ til eins skara /
9 Sambind ecke eina synd tvisvarsiñum / þvi þu munt ecke jafnvel i eirnre verda ostraffadur.
10 Seig ecke : hañ mun lijta til miña foorna margfiølda/ og nær eg offra til þess hædsta Guds / mun hañ medtaka þ.
11 Verktu * ecke efasamur i þiñe bæn/ og forsooma ecke ad giefa ølmusu. * Jak. 1/ 6.
12 Spotta ecke * eina mañeskiu/ sem er hrigg/ þvi þar er ** sa/ sem nidurþricker z upphefur aptur. * c. 4/ 3. ** Luc. 1/ 52.
13 Uppdikta ecke lijge i moote þijnū brodur/ z gior ei helldur þijnū vin þvilijkt/
14 Liug ecke giarnañ nockra lijge / þvi ad hallda æfram þar i/er ecke til gagns
15 Verktu ecke mælugur / hvar ed eru marger gamler/ og* ytreka ecke i añad siñ þijna rædu upp aptur i þiñe bæn. * Matth. 6/ 7.
16 Hata ecke ervide / sem þarf omaks vid/ edur Jardareñar yrking / sem er *
skepud

ſkøpud af þm̄ Hædſta. * 1. Moſ. 3/17.
17 Reikna þig ecke ſialfañ a medal
ſyndarañа margfiølda/ lijtelacka miøg
þijna ſal.
18 Minſtu/ ad reideñ dvelur ecke/ ad *
eins ogudlegs ſtraff er elldur z ormar.
* Eſ. 66/24.
19 Skipt ecke um̄ eirn vin fyrer nock-
ud / ſm̄ ecke liggur ſierdeiles magt a /
z ei um̄ eirn riettſiñadañ broodur fyrer
Gull af Ophir.
20 Lijttu ecke villt til fra eirnre vijſre
z goodre kvīnu / þvi heñar gunſt er *
fram̄ yfer gulled. * Ordek. 31/10.
21 * Far ecke illa med eirn huſſ-þien-
ara/ ſm̄ ervidar trulega / edur med eirn
daglaunara/ ſm̄ ſetur ſijna ſal ut.
* C. 33. 33/34.
22 Þijn ſal ſkal elſka eirn forſtandig-
añ huſſ-þienara / ſkil hñ ecke þar vid/
ef hñ kañ verda frij.
23 Hafer þu kvikfienad/þa lijt til ha-
ñs/z ef hñ er þier nytſamlegur/þa lat
hñ vera hia þier.
24 Eiger þu børn / þa aga þau / og
beig þra hals allt fra ungdoome.
25 Eiger þu dætur/ þa haf gat a þra
lijkama / z lat þijna aſioonu ecke vera
lyſtuga vid þær.
26 Gief þijna doottur/ſo muntu hafa
giort eitt ſtoort verk/ og gief einū for-
ſtandigum mañe hana.
27 Eiger þu eina huſtru epter þijnu
giede/ þa utſkufa heñe ecke / z gief þig
ecke ſialfañ eirnre haturs fullre.
28 * Heidra þiñ fødur af giørvøllu
hiarta/z gleym ecke moodurenar harm-
kvælum. * C. 3/7.
29 Minſtu ad þijn er ablad af þm̄/ og
hvad kanku giefa þeim aptur / ſem
þau hafa giort vid þig?
30 Ottaſtu Drotteñ af þiñe giørvallre
ſal / og haf hñs preſta hæverduglega
i heidre.
31 Elſka hñ af øllum krapte/ſem þig
hefur giort / z yfergief ecke hñs hei-
laga þioona.
32 Ottaſtu Drotteñ / og heidra eirn
preſt / z gief hønū þañ hluta / ſo ſem
* þier er befalad/þañ fyrſta grooda/ z
ſkulld-offur og boogſens gafu / z helge
giørdareñar offur / ia heilagra fyrſta
grooda. * 3. Moſ. 2/3. 5. Moſ. 12/19.
33 Og * riett einum fatækū þijna hø-
nd/ ad þijn bleſſan ſkule verda fullkom-
eñ. * C. 14/17.
34 Gafañ hefur gunſt fyrer hverium̄ /
ſem lifer / og þu ſkallt ecke lata af *
ad giøra vel vid eirn ſm̄ daudur er/
* 2. Sam. 2/5.
35 * Halltu þig ecke fra þeim / ſem
grata/ og ſyrg med þeim ſyrgendu.
* Rom. 12/15.
36 Tef ecke * ad vitia eins ſiuks/ þvi
fyrer þvilijka hlute muntu elſkaſt.
* Matth. 25/36.
37 J øllum þijnū athøfnū * miñſtu
þiña ſijduſtu hluta/ og þu munt ecke
ſyndga æfenlega. * 5. Moſ. 32/19.

## VIII. Capitule.

### Amiñing til Fridar og Einingar.

Hratta ecke vid eirn megtugañ
mañ / ad þu ſkuler þo ecke fa-
lla i hñs hendur.
2 Þratta ecke vid eirn rijk-
añ mañ ſo ad hañ ſkule ecke vega meir
eñ þu.
3 Þvi gulled hefur fordiarfad marga/
og fraſnued konungaña hiørtum.
4 Kijfa ecke vid eirn ordhak / og legg
ecke vid ad hñs ellde.
5 Gamna þier ecke vid eirn olærdañ/
ad þijner fedur ſkule ecke vanheidraſt.
6 Spotta ecke * eina mañeſkiu / ſem
ſnijr ſier fra ſyndeñe/ miñſtu/ ad vier
erum aller laſtverder.
* 2. Cor. 2/6. etc. Gal. 6/1.
7 Vanvird ecke eina mañeſkiu i ſiñe
elle/ þvi eirneñ af oſſ verda gamler.
8 Gled * þig ecke yfer einum/ ſm̄ deir/
miñſtu/ ad vier aller faū enda.
* Job. 31/29. etc. Ordsk. 24/17. Mich. 7/8.
9 Forſma ecke * hiña vijſu rædur/ z æf
þig i þra ordskvidum/ * C. 6/36.
10 Þvi þu kant læra mentan af þeim/
og heidurlega ad þiena ſtorū herrum.
11 Fardu ecke villt fra hiña gømlu
rædu/

rædu / þvi þeir hafa og lært af þeirra
fedrum/
12 Þvi þu kant læra forstand af þm/
z ad giefa svar/nær þess giørest þorf.
13 Uppkveikku ecke eins syndara glæd-
ur / ad þu skuler ecke uppbreña i hañs
bál-ellde.
14 Sta tu ecke upp fyrer eins lastara
augsyn/ad hñ skule ecke setia sig so sm
ut/ ad sitia um þiñ muñ.
15 Læna ecke þeim mañe/sem er volld-
ugre eñ þu/z ef þu lænar honum nock
ud/ * þa mæ þad vera/ sm þad være
tapad. * c. 29/ 4. etc.
16 Vertu * ecke borgunarmadur fram
yfer þyna formegan/eñ gænger þu i bor
gun fyrer nockurn/ þa þeinktu/ sem þu
ætter ad betala. * Ordsk. 6/1. c. 11/15.
17 Gack ecke i riett vid eirn doomara/
þvi þr munu dæma hñ epter hñs tign.
18 Gæcktu * ecke a veige med einu v-
syfnum/ ad hñ skule ecke verda þung-
ur i moote þier: * 1. Mos. 4/ 8.
19 Þvi hñ vill giøra epter synum vil-
ia / Og þu mætt farast med af hañs
dæruskap.
20 Kyfa ecke vid * þañ/sm reidegiarn
er/og gack ecke med hønu uti eydemørk-
ena/ * Ordsk. 22/ 24.
21 Þvi blood er fyrer hñs augu / sem
eckert/ þar sm eingeñ hiælp er/kiñe hañ
þig ad velle ad leggia.
22 Rædslaga ecke vid eirn dæra / þvi
hñ kañ ecke ad standa fyrer orde.
23 Giør eckert fyrer einum framande /
sm þu villt hafa leynt / þvi þu veitst
ecke / hvad hñ vill fæda af sier.
24 Openbera ecke þitt hiarta fyrer
hvøriu mañe/ z læt hañ ecke bera þier
falskañ betaling aptur.

## IX. Capitule.

Madur skal breita skynsamlega vid
Kvinur/og vakta sig fyrer Hoordom etc

Verlu * ecke ofvandlætur vid þy-
na kiæru hustru/z kiendu heñe
ecke eirn vondañ lærdoom i
giegn þier sialfum.
* 4. Mos. 5/ 14.
2 Gief ecke eirnre kvinu þyna sæl/ ad
hun verde þiñ herra.
3 Gack ecke i moote eirnre hoorkonu /
ad þu skuler ecke falla i heñar snørur.
4 Snu * þier ecke til eirnrar kvedindes
konu/ad þu ecke skuler fængast med þvi
er hun hefur um hønd. * Ordsk. 5. 3. 20
5 Horfdu * ecke epter eirnre stulku/ad
þu skuler ecke steita þig a af gyrnd til
heñar. * 1. Mos. 34. 1/2. Job. 31/1.
Matth. 5/ 28.
6 Gief ecke skiækiunum þyna sæl / so
muntu ecke missa þiñ arf.
7 Skyma ecke um kring a stadarens
gotum/z far ecke villt i hñs eyde krmu.
8 Snu þynu auga fra eirne frydre kvi-
nu/z horfdu ecke a framande frydleika:
9 Þvi * marger eru villter af kveñaña
frydleika / og kiærleikureñ upptendrast
þar af/s meirn elldur. * 2. Sam. 12/1.
Judith 12/ 18.
10 Sittu olldunges ecke hiæ eins añ-
ars mañs hustru / og legg þig ecke med
heñe i fadmlag/
11 Rutadu ecke med heñe i vynenu / ad
þitt hiarta skule ecke hneigiast til heñ-
ar/ og þu skuler med þynu anda falla i
fordiørfun.
12 Yfergief ecke eirn gamlañ vin/ þvi
einu nyum er ecke ad jafna vid hañ.
13 Eirn nyr vinur/nytt vyn / Verde þ
gamallt/so dreck þad med lysteseme.
14 Læt eins * syndara virdingu ecke
hrella þig/ þvi þu veitst ecke hvada enda
þad mune fæ um hañ. * Esth. 5. 11/12
15 Læt þad ecke þocknast þier / sem
þocknast ogudlegu/minstu/ ad þr munu
ecke halldast riettlæter / allt til þess þr
fara nidur i helvyte.
16 Halltu þig længt fra þm/sm hafa
magt til ad slæ i hel / so þarftu ecke ad
vera hræddur fyrer daudans otta.
17 Og ef þu kiemur til hñs/so forgryp
þig ecke / so ad hñ skule ecke taka lyfed
af þier/
18 Þu skallt vita/ad þu geingur a med
al snaraña / og reikar ofañ a hæum
tindum i stødunum.

19 Lær ad þeckia þijna nágranna / so
miked sem þier mógulegt er / z rádfær
þig vid skynsamt foolk/
20 Og haf þijna ræðu vid forstand-
uga / og allt þitt tal skal vera um þess
Nædsta lógmaal.
21 Lát riettláta men vera til giesta
med þier / lát þijna lysting vera i Gu-
ds otta.
22 Verked skal prijsast fyrer hagleiks-
mañaña hønd / z eirn vitur stioornare
yfer foolkenu fyrer hñs ræðu.
23 Eirn mælugur madur er hrædeleg-
ur i sijnu stad/z hñ sem flijter sier i siñe
rædu/ mun hatadur verda.

## X. Capitule.

### Um Yfervallded / og ad forðast Drambseme.

Eirn vijs doomare mun kieña sij-
nu foolke / og eins forstandugs
stiornan mun verda skickanleg.
2 So sm * doomareñ er fyrer
sijnu foolke/so eru z hñs embættesmeñ.
Og so sem stioornareñ er i einu stad/ so
eru aller innbyggiararner þar i.
* 1. Kong. 12/ 14
3 Eirn olærdur kónungur * fordiarfar
sitt foolk / eñ eirn stadur kañ sekeñ
ad verda fyrer hiña voldugu forstand.
* 2. Kong. 21/ 9. etc.
4 Magteñ i landenu stendur i Drott-
ens hende/ z hñ uppvekur eirn/ sem er
gagnlegr/ þar yfer/ i hentugañ tijma.
5 Eins mañs velferd stendur i Drott-
ens hende / og hñ mun tilleggia eirnre
skriftlærdre persoonu siñ heidur.
6 * Gior þig ecke leidañ vid þiñ
naunga fyrer ranglætesens saker /
z gior eckert med forsmaan i þijnu at-
hófnum. * 3. Mos. 19. 17/ 18.
7 * Drambsemeñ er hatursleg þ Drott
ne z mónnunum / og af bædum (nefnel.
reide z drambseme) gioreft orietttur.
*1. Pet. 5/ 5. Jak. 4/ 6. etc.
8 Eitt rijke * fer burt fra eirne þiood/
til eirnrar añarar / ** vegna rang-
lætes z forsmaanar og svikafulls pæn-
ings. * Dan. 4/25. ** Spek. 5/25.

9 Hvar fyrer drambar sig * Jord og
aska? þvi eckert er ranglatara eñ eirn
ágiarn. * 1. Mos. 18/ 27.
10 Þvi hñ giører sijna eigeñ saal fala/
þvi þær hafa burtkastad hñs innybiñ /
medañ hñ eñ lifer.
11 Eirn lækner skilur eirn vid eirn læng
varande siukdoom / Og i dag eirn kon-
ungur/ z a morgun kañ hñ ad deya.
12 Þvi nær eiñ madur er burt daudur/
þa erfer hñ orma z dijr og * madka.
* Job. 17/ 14.
13 Upphaf til drambseme er / ad eirn
madur fellur fra Drottne/ z hñs hiar-
ta vijkur fra hm/sm hefur giort hañ.
14 So ad drambsemeñ * er upphaf til
syndareñar/z sa sem fær hana mun ut
ausa vidurstigdeñe sem einu steipe-
regne. * 1. Mos. 3/ 5.
15 Þar fyrer hefur Drotteñ undar-
lega læted koma olucku/og loksens koll-
kastad þeim
16 Drotteñ * hefur nidurbroted yfer-
valldaña throna/z sett hogværa i þra
stad. * Luc. 1. 51/ 52.
17 Drotteñ hefur upprift dramblatra
heidingia rootu / z plantad hogværa i
þeirra stad.
18 Drotteñ hefur umsnued heiding-
iaña lande/ z fordiarfad þa i gruñ.
19 Hañ liet visna nockra af þeim / og
eydelagde þa/ og afmaade þeirra miñ-
ing af Jordune.
20 Drambsemeñ er ecke skøpud fyrer
foolked/ og ei bræd reide fyrer þa/ sem
fædast af kviñum.
21 Hvilijkt er eitt veglegt sæde ? eirn-
rar mañeskiu sæde. Hvilijkt er eitt veg-
legt sæde ? þeir sm ottast Drotteñ.
22 Hvilijkt er eitt vanvirduglegt sæde?
eirnrar mañeskiu sæde / Hvilijkt er eitt
vanvirduglegt sæde ? þeir sm yfertroda
bodorded.
23 Mot a medal siña brædra verdur
eirn stioornare hafdur i heidre / z þr sm
ottast Drotteñ/ eru fyrer hñs augum.
24 Adur eñ madur fær ofervallds ma-
gt / skal þar vera Drottens otte/ Eñ

til ad missa yfervallds magt / hiælpar
hardud z hofmoodur.
25 Sie nockur rijkur/ edur veglegur/ ed-
ur fatækur/ so * er þo þeirra hroosan
Drottens otte. * Jer 9. 23/ 24.
26 Þad er * ecke riett ad forsma eirn
fatækañ/ sm̃ er skynsamur/ z þad sæm-
er ecke ad heidra eirn syndugañ mañ.
* Jak. 2. 5/ 6.
27 Eirn stoor herra z doomare/ z megt
ugur madur skal heidrast/ og þar * er
eingeñ af þessum stærre/ eñ sa er ottast
Drotteñ. * c. 25/ 11.
28 Frials børn skulu þioona einũ vit-
ugũ sveine/ z eirn forstandigur madur
skal ecke mogla/ nær hñ straffast.
29 Halltu þig ecke ofvitrañ ad giøra
þitt verk / og stærdu þig ecke a þiñar
angistar tijma.
30 Betre er sa / sm̃ erfidar / og hefur
yferfliootanlegt af øllũ hlutũ / eñ sa /
sm̃ spatzerar og þikest/ z vantar braud.
31 Mitt barn / heidra þijna sal med
hooglæte/ og gief þm̃ heidur/ sem hñs
er verdur.
32 Hvør vill hallda þañ rietttlatañ /
sm̃ syndgar i moote siñe sal ? og hvør
mun virda hñ / sm̃ vanvirder sitt lijf ?
33 Eirn fatækur heidrast fyrer hñs
vitsku skulld/ z eirn rijkur heidrast fyr-
er sijns rijkdooms skulld.
34 Þar heidrast eirn i fatækdoom / og
hvad miklu framar munde þad skie i
rijkdoome? og þar vanheidrast eirn i rijk
doome / og hvad miklu framar munde
þad skie i fatækdoome ?

## XI. Capitule.

### Hvorneñ Tijmanleg Næring skule utvegast og brukast.

Neñ * audvirdelega speke upp-
hefur hñs høfud/ og mun set-
ia hñ a medal stoor-herra.
* 1. Mos. 41/ 40. Ps. 78/ 70.
Ps. 113 7/ 8. Dan. 2/ 48.
2 Þu skallt ecke hroosa einum mañe
fyrer hñs frijdleiks skulld/ z vertu ecke
andstiggelegur vid nockurn fyrer hañs
lijtelfiørlegs alits saker:
3 Þvi ein bijfluga er lijtel a medal fugl-
aña / z heñar avoxtur er þad sierleg-
asta a medal þra sætu hluta.
4 Vertu * ecke stolltur af þijnũ klæd-
um / z upphef þig ecke a herdurs deig-
enum/ * P. G. 12/ 21.
5 Þvi Drottens verk eru undarleg/ og
hñs verk eru huleñ a medal mañaña.
6 Marger tijrañar mattu sitia a gol-
fe/ eñ sa / sem madur ecke hugade til /
bar koronu.
7 Marger megtuger eru ordner miøg
vanheidrader/ z vegleger eru framseld-
er i añara hendur.
8 Lasta aungañ fyrr eñ þu hefur spu-
rt þig um̃/ skynia fyrst / z straffa svo.
9 Svara ecke til/ fyrr eñ þu hefur hey-
rt / og slettu ecke nockru iñ midt i añ-
ara rædu.
10 Þrætta ecke um̃ eitt malefne/ sem
þig vardar ecke um̃ / og sit ecke med i
syndaraña doome.
11 Mitt barn / hafdu ecke ad ydia i
marg lags hondlan / þvi ef þu tekur
þier miked fyrer/ þa muntu ecke verda
saklaus.
12 Og þott þu jafnvel filger fast þar
ad/ so hondlar þu þad þo ecke/ z þott
þu jafnvel flijer / kantu samt ecke und-
añkomast.
13 Þar er sa/ * sm̃ mæder sig z ervid-
ar/ og leggur kapp a / og hañ vantar
þvi meira. * Pred. 9/ 11.
14 Þar er eirn latur / og sem hefur
hiælpar þørf/ sm̃ vantar hreiste / z er
yferfliootanlega i fatækt/
15 Og Drottens auga leit a hañ til
goods/ z uppreiste hñ af siñe eymd/
16 Og upphafde hñs høfud af for-
diørfuneñe/ z marger forundrudu sig a
hønũ/ sem sau þar uppa.
17 Gott z illt/ lijf og daude/ fatækt og
rijkdoomur * eru fra Drottne.
* Job. 1/ 21.
18 Vijsdoomur og speke z løgmalsens
þecking kiemur fra Drottne/
19 Elskuseme z vegur til goodra verka
eru fra hønum.
20 Villa og myrkur eru skøpud med
syndur-

syndurunū/ eñ illſkañ verdur gømul med
þm/ sm giøra sig gladværa af illu.
21 Guds gæfa blyfur stødug fyrer þa
gudhræddu/ z hūs good velþocknan mun
luckast æfenlega.
22 Þar er sa/ sm̄ verdur rykur af mik-
ellre um̄ſtoon z ſiñe nyſku/ z þſſe er hūs
verdkaups hlutdeild/
23 Nær hañ seiger : * eg hefe funded
roo / z nu vil eg eta af mynu gotze æn
aflæts: * Luc. 12/ 19. Ps. 62/ 11. etc.
24 Og hañ veit ecke/ hvada tyme þar
mune ganga yfer hañ/ z hū mun læta
þad ødrum epter sig/ og deya.
25 Stattu stødugur i þynum satt-
mæla/ og æf þig þar i/ og verd gamall i
þynu verke.
26 Undra þig ecke a eins syndara verk-
um/ * trudu Drottne / z blyf vid þitt
ervide: * c. 2/ 6. Ps. 37/ 3. etc.
27 Þvi þad er hægt fyrer Drottens aug
um/ ad giøra strax eirn fatækañ rykañ.
28 Drottens blessan er i þess gudhræ-
dda verdkaupe / so ad hañ lætur hañs
blessan bloomgast iñañ stutts tyma.
29 Seig ecke: hvad gagnar þad mier?
z hvad gott mun eg hafa hier epter?
30 Seig ecke: * eg hefe noog/ og þad
eg hefe/ er miked/ z hvi skyllde mier lyda
illa hier epter/ medañ eg life? * c. 5/ 1.
31 Nær þad geingur einū vel/ þa gleym
er hū þvi vonda / og nær þad geingur
einū illa / þa þeinker madur ecke til
þess gooda.
32 Þvi þad er hægt fyrer * Drottñ/
ad betala einū a hūs dauda deige/ so sm̄
hū þad hefur forþienad. * c. 17/ 23.
Rom. 2/ 6. etc.
33 Eirn vondur tyme giører/ ad madur
gleymer sælgiæte/ og i eirnrar mañeskiu
endalikt/ munu heñar verk opinberast.
34 Pryſa aungvañ farsælañ/ fyrr eñ
hūs endalikt kiemur.
35 Og eirn madur mun þeckiast af
hūs børnum.
36 Leid ecke hvørn mañ iñ i þitt hus/
þvi þar eru mørg svik hia einum
svikara.
37 Sem ein riupa / er tæler i eirnre
kørf / so er eins dramblæts hiarta / og
sem sa/ er tekur vara a / lytur hū epte-
er falle.
38 Þvi i þvi ad hū um̄snyr þvi gooda
til ills/ giører hū svikræde/ ja i þvi sm̄
byriar ad halldast þ hid hellsta/ legg-
ur hū þier lyte til.
39 Af einum litlū elldneista verdur
ein stoor hruga glooda/ og ein syndug
mañeskia situr um̄ blood.
40 Tak þier vara fyrer einū vodæda
mañe/ þvi hū hefur illt i siñe ad giøra/
so ad hū skule ecke giøra þier eina ei-
lyfa skøm̄.
41 Tak eirn framande til hyſingar/ z
hañ mun kollvarpa þier med orooa / z
skilia þig vid þitt eiged.

XII. Capitule.

Madur skal giora Gudhræddū gott /
eñ taka sier Vara fyrer Hræsnurum.

Vilier þu giora gott / þa vit
hvøriū þu giører þad/ so fær
þu þock fyrer þitt hid gooda.
2 Gior einum gudhræddum
gott/ so muntu fiña endurgialld/ z ef þ
kiemur ecke fra honū/ so kiemur þad
fra þeim Hædsta.
3 Sa hefur ecke gott / sm̄ helldur vid
þad vonda/ z ecke giefur ølmusu.
4 Gief * þeim gudhrædda/ z hialpa
ecke syndaranum. * 2. Cor. 8/ 14.
5 Giør þeim aumu til gooda / z gief
ecke einū ogudlegum.
6 Iñehalldtu þynu braude / og gief
honum ecke / ad hañ skule ecke þar af
verda þier megtugur:
7 Þvi þu munt fiña tvøfallt illt/ fyr-
er allt gott/ sem þu giører honum/
8 Þvi sa Hædste * hatar syndara/ og
hū mun maklega straffa þa ogudlegu.
* Ps. 5/ 6.
9 So hañ geimer þa til þeirra straffs
krøptugs dags.
10 Gief þeim gooda / og hialpa ecke
syndaranum.
11 Nær þad geingur nockrum vel/ þa
kañ eirn vinur ecke þeckiast. Og nær

þad geingur illa til/ þa kan̄ eirn fiand-
madur ecke ad dyliast.
12. Nær þad geingur einu man̄e vel/ þa
sorger han̄s fiandmadur þar af. Og
nær þad geingur hønum illa/ þa þorer
og hn̄s vinur ad skilia vid han̄.
13 Trudu þijnum fiandman̄e alldrei/
þvi so sem kopareñ ridgar/ so er han̄s
vondska.
14 Og þott hn̄ jafnvel hneige z bugke
sig/ so halltu þin̄e sal stødugre/ z vara
þig fyrer hønum.
15 Og þu skallt vera høn̄u / s̄m sa / er
fæger eirn speigel/ og merkia/ ad hn̄ er
ecke alltijd gromtekeñ.
16 Lat han̄ ecke standa hia þier / ad
han̄ skule ecke kollkasta þier/ z standa i
þijnum stad.
17 Set hn̄ ecke hia þin̄e hægre hen-
de/ ad hn̄ skule ecke einhvørn tijma leita
epter ad taka þin̄ stool/
18 Og þu munt lokssens san̄a mijnar
rædur/ z stirkiast med mijnu ordum.
19 Bind ecke eina ſ[illegible] teis vaſ siñum/
þvi þu kant ecke jafnvel fyier eina ad
halldast saklaus.
20 Hvor aumkast yfer þan̄ / er biteñ
verdur af einum høggorme/ s̄m hn̄ sær-
er: edur yfer nockurn af þm̄ / s̄m geing
ur til hin̄a villtu dijra:
21 So aumkast z eingeñ yfer þan̄/ sem
geingur til eins syndugs man̄s z sam-
blandar sig vid hn̄s synder:
22 Han̄ verdur hia þier eirn tijma/ og
ef þu vijkur þar fra / þa blijfur han̄
ecke stødugur.
23 Og eirn fiandmadur mun ad søsu
tala sætt med sijnum vørū / eñ i han̄s
hiarta mun han̄ rædslaga ad kollkasta
þier i eina grøf. * Jer. 41/ 6.
24 Han̄ mun * grata med sijnū augū/
og fin̄e hn̄ tækefære/ þa mun han̄ ecke
fillast af bloode. * Dom. 14/ 16.
25 Ef olucka mæter þier/ þa muntu
fin̄a hn̄ þar fyrer þier / og so s̄m han̄
villde hialpa/ mun han̄ grafa under
þin̄ hæl.
26 Han̄ mun * hrista sitt høfud / og
klappa med sijnū høndū/ z sladra mik-
ed/ og umbreita sin̄e asijnd. * c. 13/ 9.

## XIII. Capitule.

### Man̄eskiun̄ar Olijkt Tilstand i Heimenum.

Hvør sem * tekur a bikenu/ mun
saurgast þar af/ og hvør sem
fæst vid eirn drambsaman̄/
mun verda hønum lijkur.
* 5. Mos. 7/ 2.
2 Taktu ecke upp birde/ s̄m þier er of-
þung/ og fæstu ecke vid eirn megtugre
z rijkare eñ þu.
3 Hvad skal eirn leir-pottur eiga sam
an̄ vid eirn kopar-pott ? han̄ mun
stæst vid / og hiñ mun sundurbrotne.
4 Eirn rijkur giorde oriett / z hn̄ * olm-
adest eirneñ þar ad auk/ Eirn sakælakur
leid oriett / z han̄ hlaut eirneñ ad lata
undan̄ þar a ofan̄. * Ps. 33/ 9.
5 Kun̄er þu ad vera hønū nytur / þa
nijter hn̄ þig/ eñ getr þu ecke meir/ þa
mun hn̄ yfergiefa þig.
6 Hafer þu nockud/ þa mun han̄ eida
med þier/ og tæma þig/ z hn̄ mun ecke
erfida.
7 Hafe hn̄ þijn þorf/ þa mun hn̄ svijk
ia þig/ og hlæia ad þier / z giøra þier
von. Han̄ mun tala vel vid þig / og
segia: hvørs hefur þu þorf? og han̄
mun smæna þig med sin̄e fædu.
8 Þar til han̄ fær tæmt þig tvisvar
eda þrisvar sin̄um / og ad sijdustu mun
han̄ spotta þig.
9 Þar epter mun han̄ sia þig / z yfer
giefa þig/ og * hrista sitt høfud epter
þier. * c. 12/ 26.
10 Vara þig/ ad þu verder ecke svikeñ/
11 Og ecke verde þier nidrad i þin̄e glede
12 Nær eirn megtugur kallar þig til
sijn/ þa vertu þar fra/ so mun hn̄ þess
framar kalla þig til sijn.
13 Þreing þier ecke in̄/ ad þu skuler ecke
utskufast/ z stattu ecke oflangt fra/ ad
þier skule ecke gleimt verda.
14 Kreppstu ecke vid ad tala miked vid
hn̄/ z trudu ecke hn̄s mørgu ordū. Þvi
med miklu mælstrafe mun hn̄ reina þig/

z sem hn hlær ad pier/mun hn ulocka
pad/sm var duled i pier.
15 Sa sm ecke vardveiter syn ord / er
om skunsamur / og han mun ecke spara
pig med plægu z bondum.
16 Vakta pig/z vara pig vel/ pvi pu
geingur med pitt fall.
17 Neyrer pu petta / so vaknadu upp
i pynum svefne.
18 Elskadu Drottenn so leinge sem pu
lifer/z akalla hn pier til hialpræde s.
19 Nvort dyr * elskar sin lyka: so skal
z hvor maneskia sin naunga. * c. 27/9
20 Allt holld safnast epter sine teg-
und/z eirn madur skal ahanga fastlega
synum lyka.
21 Nvad skal eirn ulfur eiga saman vid
eitt lamb: so er eirn syndare i moote ein
um gudhræddum.
22 Nvada frid hefur hyæna vid eirn
hund/z hvada frid hefur eirn rykur vid
eirn fatækan?
23 Eins sem villu-asnar i eydemorku
eru leonana braud/ so eru peir fatæku
hinna ryku fæda.
24 Audmyktenn er einu drambsomum
ein vidurstigd/so er eirn fatækur peim
ryka ein vidurstigd.
25 Nær eirn rykan reikar/ pa stidst hn
stodugt af synum vinum/ en nær eirn
aumur fellur/ pa verdur honu afram
hrunded af hns vinum.
26 Nær eirn rykur er fallenn / pa eru
par marger/ sm hialpa honu a fætur/
hafe hn mistalad sig/so giefa pr hon-
um samt riett par med.
27 Eirn lytelmagne fellur/og pr hall-
mæla honu par med / han talade skyn-
samlega/z honu gafst ecke rum par til.
28 Eirn * rykur talade/ og pr pogdu
aller / z peir upphoofu hns rædu til
skyana. * Ps. 73/ 9.
29 Eirn fatækur talade / og pr sog-
du: * hvor er pesse / z ef hn rekur sig
a / munu peir kollkasta honu par ad
auk. * Ps. 4/ 7.
30 Rykdoomurenn er goodur / hvar par
er ecke synd hia / z fatækdoomurenn er
vondur i eins ogudlegs munne.
31 Eins manns hiarta umbreiter hns a-
sionu/hvort helldur pad er til gods eda
til ills / z eitt hiarta sm blomgast med
gladværd / giorer p ad eirn lytur vel ut.
32 Eitt lystugt andlit er footspor til
hiartans i medlætenu/en punger pa nk
at giora/ad madur finnur epterlykingar.

XIV. Capitule.

Tymanlegt Gots skal brukast med
Vitsku.

Nader eirn farsæll madur / sem
ecke mistalade med synu munne/
z ecke hefur styng i syndarenn-
ar sorg.
2 Sa er sæll/ sm * ecke fordæmest af
synu hiarta/ z sa sm er ecke fallenn fra
sine von/sem hn skyllde hafa til Drott-
ens. * Job. 27/ 6.
3 Einu * nyskum manne soomer ecke
rykdoomur vel/z hvad skulu eirnre nysk-
re maneskiu peningar? * c. 31/ 28.
4 Nvor sm safnar fra sine salu / *
han safnar til annara / og adrer munu
kræsa sig med hns gotze. * Ps. 49/11.
5 Sa sm er sier sialfur illur/ hvorium
munde hn verda godur? z han mun vyst
ecke verda gladur af synu peningum.
6 Par er eingenn * verre/ en sa/ sem er
nyskur vid sig sialfann/ og pad er hans
illsku endurgialld. * Ordsk. 11/ 17.
7 Og giore hn gott/pa gorer hn pad
ecke med vilia/ z ad sydustu lætur han
syna illsku sia.
8 Sa er vondur/ sem hefur eitt nyskt
auga / sm burtsnyr synu auglite z for-
acktar salernar.
9 Eins agiarns auga * fillest ecke med
syna hlutdeild/z eitt vont ranglæte upp
purkar eina sal. * Ordsk. 27/ 20.
10 Eitt vondt auga er * spart a brau-
de/z lætur vanta a synu borde.
* Ordsk. 23. 6/ 7.
11 Mitt barn/ giordu pier sialfum til
gooda/so sm pu hefur til/ og fær offur
til Drottens/sm pad er verdugt.
12 Minstu / ad dauden dvelur ecke / og
helvytes sattmale er pier ecke vyst.

13 Giør þyñu vin til gooda / ædur eñ
þu deyr / ⁊ utriett þyna hønd * epter
þiñe formegan/ og gief honum.
*C. 35/ 9. Tob. 4/ 9.
14 Forsooma þig ecke fra einū goodum
deige / og læt eirnrar goodtar gyrndar
hlutdeild ecke sleppa hiaa þier.
15 Hyggur þu ecke ad læta epter einum
ødrū þitt erfide / og þitt omak/ til ad
skipta med hlutfalle?
16 Gief og þigg / ⁊ helga þyna sæl /
þvi þar er ecke fædu ad leita i helvyte.
17 Allt * holld verdur gamallt sm̄ eitt
fat/ þvi þad er sa gamle sattmæle: þu
skallt vissulega deya. * Es. 40/ 6.
Ps. 102/ 12.
18 Sem * græn blød a einu þickvøxnu
trie/ þesse falla nidur/ øñur vaxa upp:
so er þad um̄ þañ / hvørs ablad er af
hollde ⁊ bloode/ eirn deyr/ eñ añar fæd-
est. * 1. Pet. 1/ 24. etc.
19 Allt * verk sem rotnar/ forgeingur/
⁊ hñ sem giørde þad/ mun fordiarfast
med þvi. * 1. Joh. 2/ 17.
20 Þad er eirn sæll madur/ sem med
speke leggur æstundan a gott / og med
siñe vitsku utleggur heilaga hlute/
21 Hañ sm̄ * yfervegar heñar veg i sy-
nu hiarta/ ⁊ vill huxa um̄ heñar hulda
hlute. * Ordsk. 2. 2/ 3/ 4.
22 Gack ut epter heñe / sem þu vilder
spyrta epter heñe/ og ligg i leyne a heñ-
ar vegum.
23 Hvør sm̄ skignest iñ um̄ heñar vind
augu / ⁊ hlustar til hiaa heñar dyrum/
24 Sem leitar herberges nælægt heñ-
ar huse / ⁊ nidursetur sulu hiaa heñar
veggium/
25 Hañ mun reisa sitt tialld hiaa heñ-
ar hende / ⁊ gista iñe i einu herberge/
hvar ad eru gooder hluter.
26 Hañ mun setia syn børn i heñar
skiool / ⁊ vera under heñar greinum/
27 Hañ mun vardveitast af heñe fyr-
er hitanū / og hafa herberge i heñar
vegsemd.

## XV. Capitule.

Gud er Ordsøk til Speke / eñ ecke til
Syndar.

Sa sem ottast Drottẽ/mun giø-
ra þetta / og hvør sem hefur
feinged þecking a løgmalenu/
mun høndla hana.
2 Og hun mun mæta honum sm̄ ein
mooder / og sem ein ung kona mun hun
taka i moote honum.
3 Hun mun * metta hñ med skynsemeñ-
ar braude / ⁊ dryckia hañ med spekeñar
vatne. * Joh. 4/ 14.
4 Hañ mun stidia sig vid hana / og ad
vyssu ecke hallast/ ⁊ hallda sier vid ha-
na / og vissulega ecke til skamar verda.
5 Og hun mun upphefia hñ yfer hñs
nævunga / og opna hañs muñ midt i
søfnudenum.
6 Hañ mun fiña glede ⁊ fagnadar ko-
ronu/og erfa eitt eilyft nafn.
7 Ovitrer meñ munu ecke høndla ha-
na/⁊ synduger meñ ecke siaa hana.
8 Hun er langt fra drambsemeñe / og
lyguer meñ munu vissulega ecke miñast
heñar.
9 Hooled er ecke fallegt i eins syndara
muñe / Þvi þad er ecke utsendt fra
Drottne:
10 Þvi hooled a ad utberast med vys-
doome/⁊ Drotteñ mun giefa þvi luckū.
11 Seig ecke: eg er fareñ þess a mis af
Drottne/ þvi þu skyllder ecke giøra þa
hlute er hñ hatar:
12 Seig ecke: hñ hefur villt mig/ Þvi
hñ hefur eirkes syndugs mañs þørf.
13 Drotteñ hatar alla svyvirding/ og
hun elskast ecke af þim/ sem ottast hañ.
14 Hñ giørde mañeñ af upphafe/⁊ skil-
de hñ epter i siñar rædagiordar hende.
15 Vilier þu/ þa mattu vardveita bod
orded ⁊ truna/ til ad giøra vel þocknan-
16 Hañ hefur sett elld og vatn fyrer
þig/ utriett þyna hønd til hvørs hellst
þu villt.
17 Fyrer * mañeskiuñe er lyfed ⁊ daud-
eñ/ og hvørt hellst heñe þocknast / mun
giefast heñe. * 5. Mos. 30. 15/ 19.
Jer. 21/ 8.
18 Þvi Drottens speke er mikel/ hñ er
sterkur med magt/ og * sier alla hlute.
* C. 23/ 28. Ebr. 4/ 13.

19 Og * hans augu eru yfer þeim/sem
ottast hn/ z hann þecker vel allt þad ein
manneskia giører. * Ps. 34/ 16.
20 Hann * baud aungvm ad vera ogud-
legu / og hefur eingum giefed leife ad
syndga. * Ps. 5/ 5.

## XVI. Capitule.

Vondra Barna/ Syndara z ugglaus-
ra Manna vill Gud vitia.

Girnstu ecke mørg ogudleg børn/
z gled þig ecke yfer ogudhrædd
um børnum.
2 Verde þau mørg / þa gled
þig ecke af þeim / nema Drottens otte
sie med þeim.
3 Treystu ecke uppa þeirra lijf/og reid
þu þig ecke uppa þra margfiolda.
4 Þvi eitt er betra enn þusund / og ad
deya barnlaus/enn ad eiga ogudleg børn.
5 Þvi af einum forstandigum kann einn
stadur seten ad verda / enn hinna ogud-
legu ættkvijsl mun verda i eyde/
6 Margt slijkt hefe eg sied med mijnu
augum/ og mijn eyru hafa heyrt sterk-
are hlute enn þessa.
7 Þar mun upptendrast * eirn elldur i
syndaranna samkvæme / og þar er reide
upptendrud a medal vantruads foolks.
* 5. Mos. 16/35.
8 Hann liet sig ecke fridstilla vid þa gøm
lu risa / sem fræviku fyrer þeirra fa-
vitsku stirk.
9 Hann * þyrmde z ecke þm/sem Loth
var framande hiaa / sem hn hafde and-
stigd aa/ fyrer þeirra hofmoods skulld.
* 1. Mos. 19. 9/ 24.
10 Hann myskunade sig ecke yfer þad for
diarfanlega folk /s voru upphrokader i
þra syndu / sem þeir høfdu giort.
11 Og so hefur Drottenn med myskun-
seme z tiptan vardveitt * sex hundrud
þusund footgaungulids / hverium hann
reffsade og myskunade sig yfer / sloo og
læknade i þeirra hiarta hardud.
* 4. Mos. 14/ 29. C. 26/ 65.
12 Og þo ad iafnvel eirn være hard-
hnackadur / mætte þad vera undur/ ef
hn skyllde vera ostraffadur.

13 * Myskunseme z reide er hia hon-
um/hn er mattugur til ad læta sig frid
stilla / z ad uthella reide. * C. 5/ 6.
14 So sem hans myskunseme er mykel /
so er og hns straff/ hn * dæmer hvørn
epter sijnu verkum. * C. 17/ 23.
15 Eirn syndare mun ecke undannkom-
ast med herfang/z eins gudhrædds ept-
erbid mun ecke gaanga til baka.
16 Gief allre myskunseme rum/ * hv-
or mun finna epter sijnu verkum.
* Rom. 2/ 6.
17 Drottenn forherdte Pharao / ad hn
ecke þeckte hn/so ad hns krøptugu verk
skylldu þeckiast af þvi/ sem er under
Himnenum.
18 Hans myskunseme er openber fyrer
øllum skiepnu / og hn hefur skipt sijnu
liose og myrkre med einum demant.
19 Seig ecke: eg * mun diliast fyrer
Drottne/munde eg nockrum i hug ko-
ma af hædenne. * C. 23. 27/ 28.
Ps. 9. 4/ 7.
20 A medal so margs foolks kann mijn
ecke minst verda/ þvi hvad er mijn saal
a medal skiepnanna/ sem ei er mæling a?
21 Sia Himenenn/ z Himensens Him-
en heyrer Gude til/ * afgrunned z Jord-
enn og þeir hluter/sem eru i þeim/munu
bifast / nær hann vitiar þeirra.
* 2. Pet. 3. 7/ 10.
22 Bæde fiollenn z Jardar einnar grund-
veller munu skialfa z titra/nær Drott
enn lijtur til þeirra.
23 Og til þra kann eitt hiarta ecke ad
huxa verduglega / og hvør kann ad yfer
vega hns vegu?
24 Og þr eru sem eirn stormur/ hvørn
ein manneskia ecke kann ad sia / og þau
flestu af hns verkum eru i leine.
25 Hvør kann ad kunngiora / edur hvør
kann ad þola hans riettlætes verk? þvi
sattmaalenn er laangt i burtu / og epter
øllum hlutu mun verda spurt i daud-
anum.
26 Hvør sem er lijtelmooklegur i hiar-
ta/ kann ad yfervega þessa hlute/ Og
eirn fævijs madur/ z sem * fer villt/ mun
yfervega daarlega hlute. * Ps. 10/ 4.

27 Mitt barn/ heyr mig/ z lær vitsku
og gief gaum med þinu hiarta ad mijn-
um ordum.
28 Eg openbera lærdoom med vigt/og
kūngiøre vitskuna kostgiæfelega.
29 J Drottens doome eru * hn̄s verk
fra upphafe/z fra þvi þau voru giø-
rd/adskilde hn̄ þra parta. * 1. Mos. 1/
1. etc. C. 2/ 4.
30 Hañ prydde sijn verk æfeñlega /
og þeirra upphøf eru i hañs hende
fyrer allar ætter.
31 Þau hungrade ecke/z urdu ei þreitt/
z lietu ecke af þeirra verkum.
32 Þad eina þiakade ecke þvi ødru/
z þau munu ecke verda hn̄s orde ohlyd-
ug æfenlega.
33 Og sijdañ leit Drottenñ til Jardareñ
ar/ og uppfyllte hana med sijnum godū
hlutum/sier hvørs dijrs saal hefur þak-
ed heñar asijnd/ og þau snua vid til
heñar aptur.

## XVII. Capitule.

### Guds Velgiørningar skulu leida til Ydranar.

DRottenñ * skapade eiñ mañ af
Jørduñe / z sijdañ ** snere
hañ hønum i hana aptur:
* 1. Mos. 1/27. C. 2/7. ** 1. Mos. 3/19.
2 Hañ gaf þm̄ talda daga og stunder /
z gaf þm̄ magt yfer þeim hlutū / sem
eru a heñe.
3 Hañ yklædde þau styrkleikanū med
sier sialfum/ og *giørde þau epter siñe
mynd. * Spek. 2/ 23. Col. 3/ 10.
Jak. 3/ 9.
4 Og hn̄ giørde þad/ad allt holld skyll
de ottast hn̄/z ad hn̄ skyllde drottna yf-
er dijrum og fuglum.
5 Raad og tungu z augu/eyru og hiar-
ta / til ad þeinkia med/ gaf hn̄ þeim.
6 J siøtta maata gaf hn̄ þm̄ hugskot/
sm̄ hn̄ utskipte/og i siøunda maata mal
ed/ ad utþijda hn̄s kroptuga hlute.
7 Hañ uppfyllte þau med forstandsens
vitsku/og sijnde þm̄ gott og illt.
8 Hañ sette sitt auga a þeirra hiørtu/
ad sijna þm̄ siña verka majestat.
9 Hañ gaf þm̄ þad / ad þau kyñu ad
hroosa sier af hn̄s furdanlegū hlutum
æfenlega/ ad þau skylldu kūngiøra hn̄s
verk viturlega.
10 Og þeir utvøldu skylldu lofa hn̄s
heilaga nafn / ad þr kyñu ad kūngiøra
hn̄s verka majestat.
11 Hañ tillagde þm̄ vitsku/ og gaf þm̄
lijffsens løgmaal til arfleifdar/ so ad þr
skylldu þeckia / ad þeir sieu þo daudleg-
er/sem eru nu til.
12 Hañ uppreiste eirn eilijfañ sattmaa
la vid þau / z sijnde þm̄ sijna dooma.
13 Þeirra augu saau eina veglega maje
stat / og þeirra eyru heyrdu hañs veg-
legu raust.
14 Og hn̄ sagde til þra: * vared ydkur
vid øllum oriette/ og hn̄ bood þeim sier.
hvøriu siñ naunga. * 1. Mos. 2/ 17.
15 Þeirra veiger eru avallt fyrer høn-
um/ þeir kuña * ecke ad hilast fyrer hn̄s
augum. * C. 23/ 29.
16 Eñ sierhvør mañeskia er hneigd
til hins illa allt fra ungdoome/og þeir
kuña ecke ad giøra sier kiøt-hiørtu i
stadeñ fyrer þau sm̄ eru af steine.
17 Hañ hefur * sett valldstioorn yfer
allar þiooder/ eñ Jsrael er ** Drott-
ens hlutskipte/ * Rom. 13/ 1. etc.
** 1. Sam. 8/ 7.
18 Hvørn hn̄ uppfoostrar med sijptan/
sm̄ eirn frumboreñ / Og vid hn̄ skipter
hn̄ eilskuñar hoose/z yfergiefur hn̄ ecke.
19 Øll þeirra verk eru sm̄ sooleñ fyrer
hønum / og hañs augu eru avallt a
þeirra vegum.
20 Þeirra ranglæte kañ ecke ad hyl-
iast fyrer hønū / og allar þeirra synder
eru fyrer Drottne.
21 Eñ Drottenñ sm̄ er froomur/z þeck-
er þad er hañ hefur myndad / hvørke
slepte þeim/ ne yfergaf þa/ i þvi hañ
hyrmde þeim.
22 Eirnrar mañeskiu ølmusa er sem
eirn signets-hrijngur hia hønū/og hn̄
mun vardveita eirnrar mañeskiu vel-
villd sem eirn augastein.
23 Þar epter, mun hn̄ uppstanda z be-

kala þñ / jm befala ✳ þra befaling a
þeirra hofud. ✳ c. 16/ 14.
Matth 25 41. etc.
24 Eñ þa/ sm̃ snua sier/lætur hñ koma aptur/ ✳ og huggar þa/sem vantar þolenmæde. ✳ Matth. 11/ 28.
25 So snu vid til Drottens / og yfer gief syndernar / ✳ bid audmiuklega frañe fyrer hønū / og mi̋nkadu æsteitingena. ✳ c. 21/ 1.
26 Kom aptur til þess Hædsta / z snu vid fra orieттenum/ z hata sviỹvirdingena harla miøg.
27 Hvør kañ ✳ ad lofa þañ Hædsta i helviȷe/ i þeirra stad sem lifa og giøra þeirra vidurkieñing? ✳ Ps. 6/ 6.
28 Vidurkieñingeñ er i burtu fra einum dauđū/ sm̃ hñ være ecke til/ ✳ sa sem lifer/ og er heill/ mun lofa Drotteñ.
✳ Ps 33/ 19.
29 Hvad stoor er ✳ Drottens vors Guds myskunseme / z fridþægingeñ fyrer þa / s̃ snua vid til hañs. ✳ Ps. 103/ 17.
30 Þvi aller hluter kuña ecke ad vera i mañeskiuñe med þvi mañeskiuñar barn er ecke odaudlegt ?
31 Hvad er biartara eñ sooleñ / z þad bregst / Og ✳ holld og blood mun uppþeñka illt. ✳ 1. Mos. 8/ 21.
32 Hañ skodar þess hæa Himens her/ og ✳ allar mañeskiur eru Jørd og aska.
✳ C. 10/ 9. 1. Mos. 18/ 27.

## XVIII. Capitule.

Hvørneñ Madur stoduglega kuñe ad moota Guds Myskunsemdar.

Hañ sem lifer eilij̃flega/ ✳ skapade alla hlute til samans.
✳ 1 Mos. 1/ 1.
2 Drotteñ er ✳ einsamañ riettlatur/ z eingeñ añar fyrer utañ hañ.
✳ Dan. 9/ 7.
3 Hañ sem bygger verølldena med siñar handar spoñ / og aller hluter hlyda hañs vilia.
4 Þvi hañ er Kongur yfer øllu med siñū styrk/ sem skilur a mille þra/ heilaga hlute fra þeim vanheiløgu.
5 Hañ ✳ hefur aungvum unt ad kuñe giora sijn verk / og hvør kañ ransaka hañs mægtuga hlute? ✳ c. 42/ 24.
6 Hvør kañ upptelia hañs magtar styrk/ hvør kañ þar hia uppreikna hañs myskunsemder?
7 Madur kañ ei ad mi̋nka z ei auka þad/ z madur kañ ecke ransaka Drottens furdanlega hlute.
8 Nær eirn madur hefur endad þad / þa byriar hñ þad fyrst/ z nær hñ vill de hætta/ þa mætte hñ efa þad.
9 Hvad er ein mañeskia/ z hvar til dugar hun? hvad kañ hun ad bæta / z hvad kañ hun ad skada ?
10 Eirnrar mañeskiu dagatal/ nær ✳ þad er miked / er þad hundrad ar.
✳ Ps. 90/ 10.
11 Sem eirn vatns drope ur hafenu og eitt sandkorn / so eru þusund ar i mooti eilij̃fdeñe.
12 Þar fyrer var ✳ Drotteñ þoleñmodur vid þa/ og uthellte siñe myskun yfer þa. ✳ Luc. 13. 7/ 8. 2. Pet. 3/ 9.
13 Hañ sa z þeckte þeirra umgeingē/ ad hun er vond / þar fyrer giørde hañ sij̃na forlij̃kun mikla.
14 Eirnrar mañeskiu myskunseme er vid heñar naunga/ eñ Drotteñs myskunseme er yfer øllu hollde.
15 Hañ straffar z tiptar / og kieñer z umvender/ sm̃ eirn hirder siñe hiørd.
16 Hañ myskunar sig yfer þa/ sm̃ med taka tiptanena/ z þa/ sm̃ hrada sier til hñs dooma.
17 Mitt barn / lasta ecke þad / sm̃ er gott / og nær ✳ þu giefur nockud/ þa hrigg aungvañ med orde. ✳ c. 20/ 16.
18 Muntu ecke kuña ad kiæla hita? so er eitt ord betra eñ ein giøf.
19 Sia / er ecke eitt ord framar eirnre goodre giøfu? z þau eru bæde hia einū naadugum mañe.
20 Eirn dare ✳ bryxlar oþægelega/ z eins oþocka giøfa j melliter augun.
✳ C. 20. 13/ 14/ 15.
21 Lærdu ædur eñ þu talar/ z lat þig lækna/ ædur eñ þu verdur siukur.
22 Rañsaka þig sialfañ/ firr eñ þu dæmer adra / og þa munt fiña endurgiallð

giallð a vitiunareñar tyma.
23 Fasta firr eñ þu verdur ofveikur/ ꝛ
* syndu um̃vendan / þa stund þu eñ
kant ad syndga. * C. 5/ 8.
24 Lát þig ecke hindra ad befala heit
eñ i goodañ tyma / og undañ drag ecke
ad riettlætast/ allt til daudans.
25 Firr eñ þu lofar nockru/ þa tilbu
þig sialfañ/ ꝛ vertu ecke sem̃ einn mañesk-
ia er freistar Drottens.
26 Huxadu um̃ *reidena/ sem̃ mun fiñ-
ast a daudans døgū/ ꝛ um̃ hefndar tym-
añ/ nær hañ burtsnyr synu auglite.
* C. 28/ 6. Matth. 3/ 7.
27 Huxadu um̃ hungurs tydena a nægt-
ar tymanū/ um̃ fatæktena ꝛ naudþurft-
ena a ryksdoomsens dogum.
28 Fra morgne til kvølds um̃skiptest
tydeñ / og aller hluter eru hrader fyrer
Drottne.
29 Ein vitur mañeskia ottast um̃ sig i
øllū hlutū/ ꝛ vaktar sig fyrer yfersion
a þeim̃ døgum hun eñ þa kañ ad syndga.
30 Eñ eirn fævys mun ecke taka vara
a tymanum.
31 Hvør sem̃ er vitur / þecker spekena/
og þeim̃ hana finnur/ mun hun veita lof.
32 Þeir sem voru vyser i rædu / þeir
kiendu ødrum vitsku/ ꝛ uthelltu skørpū
ordskvidū sem einu steiperegne.
33 Ad tala friælsiega er betra i einum
hussboonda alleina / med þvi vid eirn
daudañ loder eitt daudt hiarta.
34 Gack * ecke epter þynū gyrndū / og
halltu þier fra þeim̃ hlutum er þu hef-
ur lyst til: * 1. Mos. 4/7. Rom. 6/12.
1. Pet. 2/ 11.
35 Ef þu villt unna þiñe sælu þiñar
gyrndar godrar velþocknunar/ þa mun
tu giøra þig sialfañ þynū fiandmøñū
til spotts / sem̃ eru karger i mote þier.
36 Vertu ecke lystugur af miklu sæl-
giæte/ og lát þig ecke vera bundeñ vid
þess samlag:
37 Vertu ecke fatækur/ so ad þu hafer
samfielag vid adra af þvi er þu setur
uppa okur / so þu hafer eckert i pung-
enum. Þvi so munt þu svykia þitt eig-
ed lyf med eptermalum.

XIX. Capitule.

Vonda lyst/ Mælge og Svik ad flyia.

Eirn erfides madur/ sem dreckur
sig giarnañ druckeñ / kañ ecke
ad verda rykur / og hvør sem
helldur audvirdelega hlute fyr-
er eckert/ * mun so smamsamañ falla.
* Luc. 15. 14/ 15.
2 Vyn og * kviñur fordiarfa þa vysu/
ꝛ sa sem̃ helldur sig fastlega vid skiæk-
iur/ mun verda ofdiarfur:
* 1. Kong. 11/ 4. Syr. 9/ 9.
3 Mølur og ormar munu erfa hañ / og
ein diørf sál mun burttakast.
4 Hvør sem̃ fliootlega truer/ hañ er o-
stødugur/ ꝛ sa/ sem syndgar/ mun for-
sia sig i giegn siñe sál.
5 Hvør sem gledur sig af strákskap /
mun fordæmast / eñ hvør sem̃ setur sig
berlega i moote vellyst / hañ koronar
sitt lyf.
6 Hvor sem hefur taum a tunguñe /
hañ mun um̃gangast med einū oyfervitū
añlegū/ og sa sem̃ hatar mælge/ mynk-
ar i vondskuñe.
7 Taktu ecke aptur ord nockru siñe/ og
þad mun eckert skada þig.
8 Þu skallt hvørke segia vin edur o-
vin añara lyferne/ og nema þad sie þier
synd / þa openbera þad ecke:
9 Þvi madur heyrde þig/ og tok vara a
þier/ eñ mun med framtydeñe hata þig.
10 Hafer þu heyrt nockud sagt/ þa lát
þad deya med þier/ ꝛ vertu svo vel á-
nægdur / þad mun ecke koma þier til
ad sundurbresta.
11 Eirn dáre hefur harmkvæle af þvi
ad tala/ sem̃ hun/ er fæder/ vegna eins
barns.
12 Sem eitt skeite er stendur i eins læ-
re/ so er rædañ i eins dára kvide.
13 Straffa eirn vin/ þo hañ iafnvel ha-
fe ecke giørt þad/ og ef hañ hefur giørt
þad/ ad hañ giøre þad ecke framar.
14 Straffa eirn vin/ þo ad hañ iafn-
vel hafe ecke talad þad / ꝛ ef hañ hefur
talad þad/ ad hañ kome ecke aptur.

15 Straffa eirn vin / þui þar verda opt
sniðgeingeleg epter mal / og tru ecke
hvøriu orde.
16 Þar sleppur einum stundū nockud / z
þo ecke af hiarta / z * hvør hefur ecke
syndgad med siñe tungu? * Jak. 3/2.
17 Straffa þiñ nøunga / firr eñ þu
deiler / og gief þeß Nædsta løgmale
rum / so þu verder ostigdur.
18 Drottens otte * er upphaf til lær
doomsens / z spekeñ giører / ad þar kiem
ur kiærleike fra honum. * Ps. 111/10.
19 Drottens bodords þecking er lijffsens
lærdoomur / og þr sm̃ giøra / hvad hon-
um þocknast / þeir niota odaudlegleik-
ans tries.
20 Øll speke er Drottens otte / og i
allre speke utheimtest / ad madur hallde
løgmaled / og þecke hn̄s almætte.
21 Eirn hus-þioon / sm̃ seiger til husß-
boondans: eg vil ecke giøra sm̃ þad þier
þocknast / þo hn̄ jafnvel giøre þad sijd-
añ / ifer hn̄ þo þañ er hn̄ forsorgar.
22 Illskuñar vitska er ecke speke / og
þar er ecke forstand / hvar sm̃ * er synd
arans raad. * Ps. 36/3.
23 Þar er illska til / og hun er ein svij-
virding / og sa sm̃ vantar speke / er o-
forstandigur.
24 Betre er sa / sm̃ vantar forstand /
ef hn̄ er ottafleigeñ / eñ sa sem hefur
yferfliootanlegt forstand / z yfertredur
løgmaled.
25 Þar er ein hørd slægd til / z hun er
oriett / og þar er sa sm̃ umbreiter nad-
eñe / er hn̄ skyllde uppseigia domeñ med /
z þar er sa / sm̃ giører riettferduglega
i doomenum / sm̃ er vitur.
26 Þar er eirn hreckviß til / sm̃ hallar
høfdenu i sorta / og iñvortes er hn̄ full
ur af svikseme /
27 Hañ lijtur nidur sijnu andlite / og
lætur sm̃ hn̄ sie daufur / z hvar hn̄ ecke
þeckest / mun * hañ svijkia þig:
* 2. Sam. 15/ 23.
28 Og þo hn̄ hindrest ad syndga / af
þui hn̄ vantar styrk þar til / mun hañ
þo giora illt / nær hn̄ fær tijma þar til.
29 Af sion mun eirn madur þeckiast /
og epter þui sm̃ nockur sier andlited /
mun hn̄ þeckiast forstandigur.
30 Eins mañs klæda bunadur z kaña
hlatur / z eins mañs gangur kuñgiører
hvørneñ høñ er vared.
31 Þar er straff / sem ecke er fallegt / og
þar er eirn sm̃ þeiger / og hañ er for-
standigur.

## XX. Capitule.

### Um̃ Tunguñar Brukun.

Hvad betra er þad ad straffa
friælslega / eñ ad hafa heim-
uglegt hatur / z hvør sem tek
ur þad med þockum / hindrast
fra skadanum.
2 Sem eins gielldings girnder eru ad
kreinkia eina unga mey: so er sa / sem
helldur doom med ofrijke.
3 Þar er sa sem fiñst ad vera vitur /
af þui hañ þeiger / og þar er sa sm̃ er
hatanlegur vegna mikellrar mælge.
4 Þar er sa sm̃ þeiger / af þui hn̄ hef
ur ecke til ad svara / þar er sa sm̃ * þeig
er / af þui hn̄ veit siñ tijma. * Pred. 3/7
5 Ein vitur mañeskia mun þeiga / þar
til þar er tijme / eñ eirn mælugur z ovit
ur mun ganga fram̃ hiaa tijmanum.
6 Hvør * sm̃ hefur ofmiked ad tala /
mun halldast vidurstiggelegur / og hvør
sm̃ verdur ofmagne þar i / mun hatast.
* Ordskv. 10/19.
7 Hvad fallegt er þad / ad sa sem er
straffadur / lætur um̃vendanena siast /
þui so kañ hn̄ flija fyrer eirnre synd /
sm̃ giørest motviluglega.
8 Eirn syndugur madur hefur lucku
i vondum hlutū / z þar er motlingur til
skada.
9 Þar er skeinkur til / sm̃ ecke mun gag
na þier / og skeinkur / sem endurgielldst
tvøfalldt.
10 Þar er skade fyrer virdingar skull /
z þar eru þeir / sem upplijpta høfdenu
fra nidurlægingūñe.
11 Þar er sa / sem kauper miked fyrer
lijted / og betalar þad siøfallt.
12 Sa sem er vitur i rædum / giører

hvør vid añañ / þvi ſtadaña her er
med mier.
72 Spyrdu þig fyrer / og lærdu/ hvør
eg er/ z þeir adrer ſem hiaalpa oſſ / Og
þeir munu ſeigia / ad þier muned ecke
kuña vera ſtøduger fyrer oſſ/ þvi þijner
fedur eru tviſvarſiñum rekner a flootta
i ydar lande.
73 Og nu munt þu ecke kuña ad þola
ſlijkt riddaralid og her a mørkeñe / þar
ſm ecke er ſteirn/ ei helldur tiña/ ei helld
ur ſtadur ad umflijа.
74 Eñ ſm Jonathan heyrde Apollonii
ord/ komſt hañ vid i ſijnu huga/ og ut-
valde tiju þuſund meñ/ z foor ut af Je-
ruſalem/ og Simon hñs brooder kom ſlij-
ka/ honū til hiaalpar/
75 Og hañ ſetke ſijnar herbuder vid
Joppe/ z þeir lokudu hñ ute af ſtadnū/
þvi Apollonii vardhalld var i Joppe /
og þeir ſtrijddu a hana.
76 Eñ þegar þeir af ſtadnum urdu
ottaſlegner / luku þeir upp / og Jona-
than vard herra yfer Joppe.
77 Og Apollonius heyrde þad/ og hañ
ſetke ſijnar herbuder med þrem þuſund
riddurū og einum ſtoorū her/
78 Og hñ foor til Azotus/ ſem hñ vill-
de reiſa þar i giegnū/ og i þvi ſama bi-
le foor hñ fram a mørkena/ af þvi hñ
hafde marga riddara / og hañ ſafnade
ſier þar æ.
79 Og Jonathan ſookte a epter hon-
um til Azotus / z herflockarner komu
til ſamans til ſtrijds. Og Apollonius
hafde lææted vera þuſund riddara i ley-
ne a bak vid þa.
80 Og Jonathan fieck ad vita/ ad þar
være foolk i leyne a bak vid hñ/ og þeir
umkrijngdu hañs her/ og ſkutu ſtuttum
ſpiootum a foolked fra morgne allt
til kvøllds.
81 Eñ foolked ſtood/ ſm Jonathan haf
de befalad/ og þra heſtar urdu þreitter.
82 Og Simon droo ſiñ her fram / og
mætte þeim vid daleñ/ þvi riddaralided
var vanmegna/ og þeir fiellu fyrer hon
um / og þeir flijdu/
83 Og riddaralided vard ſundurdreift
a mørkeñe/ og þeir flijdu til Azotus/ og
komu til Beth * Dagons/ þra afguds
kyrkiu/ ad frelſaſt þar. * 1. Sam. 5. 1/2
84 Og Jonathan uppbrende Azotus/
og þorpeñ/ ſm voru þar umhverfes/ og
took þeirra herfaang/ og Dagons muſt-
ere og þa ſem voru fluner þaangad /
brende hñ med ellde.
85 Og þeir/ ſem voru fallner fyrer
ſverde med þeim uppbrendu/ voru hier
um ætta þuſund meñ.
86 Og Jonathan foor upp þadañ/ og
ſetke ſijnar herbuder vid Aſcalon / og
* þeir af ſtadnū geingu ut i mote hon-
um med ſtoorre vegſemd. * c. 11/ 60.
87 Og Jonathan ſnere vid til Jeruſa-
lem med þeim/ ſem voru med honū/ og
þeir hofdu miked herfaang.
88 Og þad ſkiede/ þegar kong Alexan-
der hafde heyrt þeſſe tijdende/ þa giørde
hañ Jonathan eñ ſtærre heidur.
89 Og ſende honū einar gull-ſpeñur /
ſem vant er ad giefa konungaña ættū /
og ſkeinkte honū Accaron/ z øll heñar
takmørk til erfda ſkeinks.

## XI. Capitule.

### Ptolomæi ogudleg Breitne i moote Alexander.

Og konungureñ af Ægyptalan-
de ſafnade mørgu herlide/ ſem
* ſande hiaa ſiaafarſtrønd/ og
morgū ſkipum / z leitadeſt vid
ad iñtaka Alexandri rijke med ſvikū/ og
leggia þad til ſijns rijkes. * Openb. 20/8
2 Og hañ droo ut til Syria med frid-
ſamlegū ordū / z þeir af ſtødunū luku
upp fyrer honū/ z geingu a moote hon-
um / þvi þad var kongs Alexandri be-
falning / ad þeir ſkylldu medtaka hañ /
med þvi hñ være hñs maagur.
3 Eñ ſem Ptolomæus foor iñ i ſtad-
ena/ tilſetke hñ eirn flock ſtrijdsfoolks
til ad hallda vord i hvørium ſtad.
4 Eñ ſm hañ nalægdeſt Azotum/ ſijn
du þeir honum Dagons muſtere/ * ſm
var uppbrende/ z Azotum og heñar for
ſtade/

stade/sem voru nidurbrotner/ og þa bu
ka / sem voru þar burtkastader / z þa
uppbrendu / sm̃ hañ hafde uppbrent i
strijdenu/ þvi þeir høfdu giort þeirra
grafer a hñs veige. * c 10. 84/ 85.
5 Og þeir sǫgdu konungenũ fra hvad
Jonathan hefde giort/ til ad skullda
hñ/ z konungureñ þagde.
6 Og Jonathan mætte konungenum
hiaa Joppe med vegsemd/ z þeir heils
udu hvør ødrũ / og svafu þar.
7 Og Jonathan for med konungenum
allt til fliotsens/ sm̃ kallast Eleuther
us/ og snere vid til Jerusalem.
8 Eñ kong Ptolomæus vard herra yf
er stodunum hia sioarstodunũ / allt til
Seleucia/ sm̃ lær hia hafenu/ z þeinkte
vondar hugxaner uñ Alexander.
9 Og hñ sende sendeboda til kong De
metrius/ seigiande: kom/ lätũ oss giøra
sattmaala i millũ ockar sialfra / og eg
vil giefa þier mijna dottur/ sm̃ Alexan
der a / og þu skallt verda konungur i
þijns fødurs rijke.
10 Þvi þad angrar mig / ad eg gaf
hønum mijna dottur/ þvi hñ leitade ept
er/ ad slaa mig i hel.
11 Og hañ skulldade hñ fyrer/ ad hañ
hefde girnst hñs rijke.
12 Og hñ took sijna dottur fra hønũ /
z gaf Demetrius hana / z skipte gieds
munũ vid Alexander / og þeirra fiand
skapur vard openber.
13 Og Ptolomæus foor til Antiochia/
z sette tvær koronur a sitt høfud/ bæde
Asiæ og Egyptalands.
14 Eñ kong Alexander var a þm̃ tij
ma i Cilicia/ þvi þeir voru frafallner/
sem voru af þeim stodum.
15 Og Alexander heyrde þ/ z kom yfer
hñ med strijd/ z Ptolomæus utfærde siñ
her / og mætte hønũ med eirnre sterkre
magt/ z rak hñ a flootta.
16 Og Alexander flijde til Arabia/ ad
hañ kiñe verndast þar/ eñ kong Ptolo
mæus vard upphafeñ:
17 Og Zabdiel sa Arabiske/ hio Alexan
dri høfud af / z sende Ptolomæo þad/
18 Og kong Ptolomæus deyde þañ
þridia dag þar epter/ Og þeir/ sm̃ voru
i festingunũ / foorust fyrer þeim ødrũ /
sem voru i festingunum.
19 Og Demetrius var konungur a þvi
hundradasta og siounda og sextug
asta are.
20 A þeim tijma safnade Jonathan
þm̃ af Judæa/ til ad strijda a sloted/ sm̃
var i Jerusalem/ og giørde margar vijg
vielar i moote þvi.
21 Og þar fooru nockrer/ sem høtudu
þeirra ætt/ illgiarner meñ/ til konung
sens / og gaafu hønũ til vitundar / ad
Jonathan hefde sest uñ sloted.
22 Og þegar hñ heyrde þad / vard hñ
reidur/ eñ sem hñ hafde heyrt þad/ took
hañ sig strax upp/ og kom til Ptolema
is/ z skrifade Jonathan til/ ad hñ skyll
de ecke setiast uñ sloted / helldur mæta
hønũ og tala vid hañ i Ptolemais/ hid
fliotasta.
23 Eñ þegar Jonathan heyrde þad /
bijfalade hñ/ ad meñ skyllde blijfa i uñ
satrenu/ og hñ utvalde nockra af þeim
ellstu i Israel / og prestunũ / og gaf sig
sialfañ i hæskañ.
24 Og hñ took silfur og gull/ z klæde/
og margar adrar skeinkingar / og feck
til konungsens til Ptolemais/ og * fañ
naad fyrer hønum. * c. 10/ 60.
25 Og þar * æklǫgudu hañ nockrer
ranglæter af sama foolke. * c. 10/ 61.
26 Og konungureñ giørde hønũ / sem
þeir høfdu giort hønũ/ er høfdu vered
fyrer hñ/ og upphafde hañ frañe fyrer
øllum sijnũ vinum.
27 Og stadfeste hønũ hañ ypparsta
prestsskap/ og allañ añañ heidur / sem
hñ hafde haft fyrrum / z giørde hñ ad
þm̃ hellsta a medal siña yppurstu vina.
28 Og Jonathan bad konungeñ/ ad hñ
villde giøra Judæam skattfrija/ z þau
þriu hierud z Samaritis / og hñ lof
ade hønũ þriu hundrud centener/
29 Og konungureñ liet sier linda þar
med / z liet skrifa Jonothan bref uñ
alla hlute/ sm̃ voru a þeñañ haatt.

30 Kong

30 Kong Demetrius tilbÿdur sÿnum
broodur Jonathan / og þvi Judaiska
foolke sÿna heilsan.
31 Eina utskrift af þvi brefe/sm̄ vier
høfum skrifad vorum frænda Lasthe-
nes um̄ ydur/ høfū vier ꝛ skrifad til yd-
ar/ sem þier kuñed siaa.
32 Kong Demetrius tilbÿdur Lasthe-
nes/ þeim fødur/ sÿna heilsan.
33 Vier høfum aalyktad ad giøra vel
vid þad Judaiska foolk vora vine / sem
hallda þad vid oss / fyrer þeirra vel-
villd vid oss.
34 So stadfestū vier þeim/ bæde Judæa
Lakmork/ og þau þriu hierud/ Aphære-
ma / ꝛ Lydda / og Ramatha / sem eru
løgd til Judæa fra Samaritis / og allt
þad sem heyrde þeim til/ øllum þeim /
(seige eg/) sm̄ offra i Jerusalem/ i stad-
eñ fyrer kongs-skatten/ sem konungureñ
hefur teked af þeim fyrrum/ aarlega/ af
øllu þvi sem kom af Jørduñe / og af
aavextenū a triaanum.
35 Og hvad aňad oss heyrer til / fra
þessare tÿd / og tÿunder ꝛ toll / sem oss
heyra til/ og sallt-stooena / og krønur /
sem oss heyra til / allt þad uppgiefum
vier þeim fillelega ꝛ fastlega.
36 Og ecke jafnvel eirn partur af þÿssu
skal raskast fra nu og allt til eilÿf-
rar tÿdar.
37 So kostgiæfed nu ad giøra eina ut-
skrift af þessu/ ꝛ giefed Jonathan/ og
ad hun meige læstast uppa þad heilaga
fiall/ a eirn sierdeiles stad.
38 Og kong Demetrius saa/ ad landed
var i kird fyrer hønū/ ꝛ eckert stood hm̄
i moote/ ꝛ hñ slepte øllu sÿnu herlide /
hvørium til sÿns stadar/ fyrer utañ þa
framande strÿdsmeñ/ sem hñ hafde tek-
ed til sÿn af heidingiaña eyum / ꝛ allur
hñs feora her vard hønū fiandskur.
39 Eñ þegar Tryphon/ sem hafde ver
ed med Alexander fyrrum/ saa/ ad allt
strÿdsfoolked mæglade moote Deme-
trio / foor hañ til Amalkuji þess Ara-
biska / sem uppfoostrade Antiochum /
Alexandri lÿted barn/

40 Og hñ beiddest af hønū/ ad hñ skyll
de faa hønum þad/ so þad kiñe komast i
sÿns fødurs stad/ ꝛ hñ sagde hønū fra/
hvad hellst Demetrius hefde nu giørt/
og þañ fiandskap/ sem hañs her hefde
til hñs/ ꝛ hñ var þar læ̃ngañ tÿma.
41 Og Jonathan skrifade til kong De-
metrio/ og bad/ ad hñ villde læta brioota
þeim af slotenu ꝛ þeim af festingunū /
ad fara ut af Jerusalem / þvi þeir
strÿddu a Israel.
42 Og Demetrius sende til Jonathan/
seigiande: þad vil eg ecke alleinasta giø-
ra þier og þÿnu foolke / helldur vil eg
vissulega heidra þig og þitt foolk/ nær
eg fæ goodañ hentugleika þar til.
43 So giører þu nu riett/ ef þu sender
mier meñ / sem kuñe ad strÿda med mi-
er/ þvi allt mitt strÿdsfolk er frafalled/
44 Og Jonathan sende þriu þusund
meñ til hñs til Antiochia / og þeir ko-
mu til konungsens / ꝛ konungureñ vard
gladur vid þeirra komu.
45 Og þar søfnudust þeir af stadnū /
midt i stadeñ/ hier um̄ hundrad og tutt-
ugu þusund mañs / og þeir villdu slaa
konungeñ i hel.
46 Og konungureñ flÿde uppa slot-
ed/ og þeir af stadnum inntooku stadar-
ens vegu/ og tooku til ad strÿda.
47 Og konungureñ kallade Judana til
hiaalpar / ꝛ þr søfnudust til hñs aller
under eins/ og i helsloou i stadnum þañ
sama dag hier um̄ hundrad þusunder/
48 Og þeir løgdu elld i stadeñ/ ꝛ toku
miked herfaang a þeim sama deige/ og
frelsudu konungeñ.
49 Og þeir af stadnum saau / ad Jud-
arner voru megtuger yfer stadnū / sem
þeir villdu / ꝛ þeir urdu efasamer / og
hroopudu til konungsens med bæn / og
søgdu:
50 Gief oss frid/ ꝛ læt Judana hætta/
sm̄ strÿda a oss og stadeñ.
51 Og þeir løgdu vopneñ fraa sier/ og
giørdu frid/ ꝛ Judarner urdu heidrad-
er fyrer konungenum / og fyrer øllum
þeim/ sem voru i hñs rÿke/ ꝛ þeir sneru

vid til Jerusalem / z høfdu miked her-
fang.
52 Og kong Demetrius sat a sinū
konunglega throne / z landed var i kird
fyrer hønum/
53 Og hañ hafde loged allt þad hañ
hafde sagt / og fieck siñ asskipte vid Jo-
nathan / og betalade ecke epter þeirre
miklu velvilld/ sem hñ hafde veitt hon
um/og hañ þreingde hønum miøg.
54 Eñ þar epter kom Tryphon apt-
ur/ og Antiochus med hønū/ eitt lijted
ungbarn/z hñ vard konungur/ og sette
upp koronu/
55 Og allt strijds fooked safnadest til
hañs / sem Demetrius hafde sundur
dreift / og þeir strijddu moote hønum.
56 Og hñ flijde/z var rekeñ a flotta/
og Tryphon took bestiurnar/ z iñtook
Antiochiam med magt.
57 Og Antiochus skrifade til Jona-
than : eg stadfeste þier þañ ypparsta
prest-skap / og samþicke þig yfer þau
fiøgur hierud / og ad vera * a med
al konungsens vina. * c. 10. 20/ 65.
58 Og hañ sende hønum gullkier til
þienustu / og gaf hønū leife ad drecka
af gullkierum / og vera i purpura / og
hafa * einar gillene speñur. c. 10/ 89.
59 Og hñ giørde Simon hñs brodur ad
høfudsmañe fra Tyri takmarke allt
til Egyptalands endemarka.
60 Og Jonathan droo ut/og foor yfer
uñ fliooted og a medal stadaña/ z þar
safnadest til hañs allt strijds foolked
af Syria / ad strijda med hønum. Og
hañ kom til Ascalones/ z þeir af stad-
nū geingu ut a mote hønū heidarlega.
61 Og hañ foor þadañ til Gaza / og
þeir af Gaza lokudu hñ ute/z hñ sett-
est uñ hana / og brende heñar forstade
med ellde / og rænte þa.
62 Þa bædu þeir af Gaza Jonathan/
og hañ gaf þeim grid / z took þeirra
stiornara syne til gisla / og sende þa
burt til Jerusalem/og foor i giegnum
landed allt til Damascum/
63 Og Jonathan heirde / ad Deme-
trius høfudsmadur være komeñ til Ka-
des/sem er i Galilæa/med marga strijds
meñ / sm villdu breita hñs uñrædum.
64 Og hñ mætte þeim / eñ siñ brodur
Simon liet hañ vera i landenu/
65 Og Simon sette sijnar herbuder
hiaa Bethsura/ og strijdde a hana lang
añ tijma/z iñe krepte hana.
66 Og þeir bædu hñ / ad þeir mætte
fa frid / og hñ gaf þeim hañ / z utrak
þa þadañ/z iñtok stadeñ /z sette vard-
halld þar i.
67 Og Jonathan z hñs her sette sijn-
ar herbuder hiaa þvi vatne Gennesar/
og þeir flijttu sier ærla uñ morguneñ
til þeirrar merkur Nasor/
68 Og siaa/ þess framanda foolks her
mætte þm a mørkeñe/z þeir høfdu sett
nockra i leine epter hønū/a medal fiall
aña/ eñ þeir sialfer komu beint i mote.
69 Eñ þeir sm laau i leine / uppstodu
af þra stødum/ og hielldu strijded med.
70 Og þeir sm voru hiaa Jonathan/
flijdu aller / þar vard ecke eirn epter
af þm / utañ Mattathias Abisalomi
son / og Judas Chalphi son / høfuds
meñ i strijdenu fyrer hernum.
71 Og Jonathan reif sijn klæde / og
dreifde Jordu a sitt høfud / z bad/
72 Og hñ snere vid moote þeim i strijd
ed/ og rak þa a flootta / z þeir flijdu/
73 Og þeir sm flijdu/ sem voru fyrre
med hønum/saau þad/ og sneru vid apt
ur til hañs / z elltu fiandmeñena med
hønum allt til Kades / allt til þra her-
buda/ z þeir settu sijnar herbuder þar/
74 Og þar fiell af þeim framande
þioodum a þeim deige hier uñ þriu
þusund meñ/og Jonathan snere vid til
Jerusalem.

## XII. Capitule.

Jonathans endurnijadur sattmaale vid
þa Romversku og Spartanisku.

Og Jonathan saa/ad tijdeñ stod
ade hñ/og hñ utvalde meñ/og
sende til Rom/ ad stadfesta og
endurnija * þañ vinskap/ sem
var med þeim. * c. 8/ 22.

2 Og til þeirra i Sparta / og til añ-
ara ſtada ſende hñ bref i þeirre ſømu
meiningu.
3 Og þeir fooru til Rom / og komu iñ
fyrer raaded/ og ſøgdu: Jonathan ſa
ypparſte preſtur/ og þad Judaiſka folk
hefur utſendt oſſ / ad endurnyia þa vin-
aattu vid ſig / og ſamband til ad ſtryda
hvør med ødrū/epter þvi fyrra.
4 Og þeir gaafu þeim bref til þeirra /
ſem voru a hvørium ſtad/ad þeir ſkyll-
du filgia þm̄ til Juda lands med fride.
5 Og þeſſe er ein utſkrift af þvi brefe/
ſm̄ Jonathan ſkrifade til þm̄ i Sparta
6 Jonathan ſa ypparſte preſtur / og
þeir elldſtu þ͛ foolkenu/ og preſtarner/
og þad añad Judaiſka foolk / tilbiooda
þra brædrū/ þm̄ i Sparta/ ſra heilſan.
7 Auk þeſſa voru þar ſend bref fyrr-
um/til Onias þeſſ ypparſta preſts/fra
Dario/ſem rijkte a medal ydar/ ad þier
ſieud * vorer brædur/ſem utſkriften iñe-
helldur/ * v. 21.
8 Og Onias took vid þeim mañe/ſem
var utſendur/ heidarlega / og medtook
þad bref/ i hvøriu þar høndlar berlega
um̄ ſamband til ſamfielags-ſtryds og
vinaattu.
9 Og eñ þo vier ecke þurfū þeſſ ſem
høfum huggun af þeim heiløgu bokū/
ſem eru i vorum høndum.
10 Villdum vier ſamt reina ad ſenda
bod/ til ad endurnyia brædralag og vin-
aattu vid ydur/ad vier ſkylldum ecke ſyn-
aſt añarleger fyrer ydur/ þvi þad er nu
laangur tijme ſijdañ / ad þier ſendud bod
til vor.
11 So miñunſt vier ydar alltijd aan af-
laats/bæde a hatijdunū og þeim ødrum
hagkvæmu døgum / yfer þvi offre ſem
vier offrum/og i bænunū/ ſem þad byr-
iar/og ſæmer ad miñaſt brædra.
12 Og vier gledium oſſ af ydar vegſemd.
13 Eñ oſſ hafa þeſſ amillum um̄kryn
gt margar þreingingar/ z mørg ſtrijd/
og konungarner hafa ſtrijdt a oſſ/ ſem
voru hier allt i kryngum oſſ.
14 Þo villdum vier ecke mæda ydur ed-
ur vora medſtrijdendur og adra vine/ i
þeſſum oruſtum:
15 Þvi vier høfū þa hiaalp af Him-
nenū/ſem hiaalpar oſſ/og vier erum frelſt
er fra vorum fiandmøñum / og vorer
fiandmeñ eru nidurlægder.
16 So høfū vier utvaled Numenium
Antiochi ſon / og Antipater Jaſons
ſon/og ſendt þa til þra Romverſku/ ad
endurnyia þa vinaattu z forna ſamband
til ſamfielags-ſtrijds med þm̄ aptur.
17 So høfū vier boded þm̄/ad þeir og
ſkylldu ferdaſt til ydar/ z heilſa ydur/
og afhenda ydur bref fra oſſ/um̄ endur-
nyian um̄ vort brædra lag.
18 Og nu giøred þier vel/ef þier ſvar-
ed oſſ aptur til þeſſa.
19 Og þeſſe er utſkriften af þvi bre-
fe / ſem Oniares utſende:
20 Þeirra Spartaniſku konungur til-
bijdur Onias / þeim ypparſta preſte ſij-
na heilſan/
21 Þad er funded bæde i hiña Spar-
taniſku og Judaña ſkrife/ad þeir * ſieu
brædur / z ad þeir ſieu af Abrahams
ætt. * v. 7.
22 Og nu med þvi vier vitum þad /
giøred þier vel/ſm̄ ſkrifed oſſ til/hvørn
eñ þad geingur ydur.
23 Og vier ſkrifū ydur til þar i mote/
ad ydar kvikfienadur og ydar gots hey-
re oſſ til/ z vort heyre ydur til/ſo høfū
vier befalad/ ad þeir ſkule giefa ydur
ſlijkt til vitundar.
24 Og Jonathan heyrde / ad Demetrii
høfudsmadur kiæme aptur med ſtærre
magt eñ fyr/ ad ſtrijda i moote hønum/
25 Og hñ foor upp fra Jeruſalem / og
mætte hønū i þvi lande Amathiti/þvi
hñ gaf þeim ecke rum/ ad fara ofañ i
hañs land.
26 Og hñ utſende * nioosnarmeñ til
þra herbuda / og þeir komu aptur / og
kuñgiørdu hønū / ad þeir hefdu ſo ætl-
ſett/ad yferfalla þa um̄ noottena.
* C. 5/38.
27 Eñ þegar ſooleñ var undergeing-
eñ/baud Jonathan þeim/ſem voru hia

hønū/ad vaka og vera i herklædum/og
buner til strijds þa giørvalla nootf/og
hñ sette vardhalld allt i krijngum her-
budernar.
28 Og fiandmeñerner heyrdu ad Jona-
than og þeir sem voru med hønū/voru
büner til strijds / og þeir ottudust og
skielfdust i þeirra hiarta / z uppkveik-
tu bæl i þeirra herbudum.
29 Eñ Jonathan og þr sem voru med
hønū/vissu þad ecke / fyrr eñ ärla uñ
morguneñ / þvi þeir sau biartañ elld
breña þar.
30 Og Jonathan sookte a epter þm /
z kuñe ecke nä þm/þvi þr voru þa kom
ner yferum þad flioot Eleutherum.
31 Og Jonathan foor burt til þeirra
Arabisku/ sem kallast Zebedear/og sloo
þa/ z rænte þa.
32 Og hñ reiste þadañ/og kom til Da-
mascus/ og ferdadest uñ allt þad land.
33 Og Simon droo ut/og foor til As-
calon/ og þeirra festinga þar nælægt /
og snere burt * til Joppe / og iñtook
hana/ * c. 13/ 11.
34 Þvi hñ hafde heyrt / ad þr villdu
giefa festingina under þa / sem stoodu
med Demetrio/ og hañ sette vardhallo
þar/ad þeir skylldu geima hana.
35 Og Jonathan kom til baka apiur/
og kallade a þa elldstu a medal foolk-
sens / z rædslagade vid þa / ad biggia
festingar i Judæa/
36 Og giøra eñ nu murana hærre i
Jerusalem / og uppbiggia eirn stoorañ
hæfañ mur i millum slotsens z borg-
areñar/til ad skilia þad fra borgeñe/ad
þad kiñe vera utaf fyrer sig/so ad þeir
skylldu hvørke kaupa edur selia þar.
37 Og þeir komu til samans ad biggia
stadeñ / og hañ nælgadest mureñ / hiä
þeim læk af austre/og endurbætte þad/
sem kallast Chaphenata.
38 Og Simon bigde Adida i Sethea /
og giørde hana fasta med portum og
staungum.
39 Og Tryphon leitadest vid / ad
vera konungur i Asia/ og ad setia upp
koronu/og utrietta sijna hønd yfer kong
Antiochum.
40 Eñ hñ ottadest/ ad Jonathan mun
de ecke lijda hønū þad/og strijda i moote
hønum/og hñ leitade tækefæres ad fan
ga Jonathan/ ad fyrerkoma hønum/og
hñ foor upp z kom til Bethsan.
41 Og Jonathan dro ut ad mæta høn
um / med fiørutiju þusund meñ / ein-
valda til strijds / og kom til Bethsan.
42 Og Tryphon sa/ad Jonathan var
þar med stoorre magt/og hñ ottadest ad
leggia hendur a hañ/
43 Og hañ medtook hñ heidarlega/ og
bijfalade øllum sijnū vinum ad hafa
hñ i heidre/ z gaf hønū gafur/ og hñ
baud sijnum her ad vera hønum hlijdug
ur/sem hønum sialfum.
44 Og hañ sagde til Jonathan : Þvi
giører þu øllu þessu foolke sijkt omak/
med þvi vier høllduñ þo ecke strijd ?
45 So læt þa nu fara heim apiur/eñ
utvel þier sialfum faa meñ / sm kuñe
ad vera hiä þier / og kom med mier til
Ptolemais / og eg vil afhenda þier ha-
na/og þær adrar festingar/z þad añad
herlid/ og alla embættesmeñ / og eg vil
snua vid z fara burt / þvi þess vegna
er eg hier.
46 Og hñ trude hønū uñ sig/og giør-
de epter þvi sem hñ hafde sagt/z sende
hereñ burt/og þr fooru til Juda lands.
47 Eñ hañ liet vera hiä sier sialfum
þriu þusund meñ / af hvøriū hañ liet
epter tvo þusund i Galilæa/eñ þusund
filgdu hønum.
48 Eñ þegar Jonathan var komeñ iñ
i Ptolemais/ þa lokudu þeir af Ptole-
mais porteñ / z faungudu hañ/ og alla
þa / sem voru iñkomner med hønum / i
helsloou þeir med sverde.
49 Og Tryphon sende strijdsfoolk og
riddara til Galilæa og þeirrar stooru
merkur/ad fyrerkoma øllum þeim/sem
hielldu med Jonathan.
50 Og þeir merktu/ ad Jonathan var
fangeñ og yferfalleñ/ z þeir sem voru
med hønum/og þr eggiudu sig sialfer /
og

og fooru fram̃ med fylkku til samans / buner til strijds.

51 Og þeir sem elltu þa / sau ad þad gillte þeirra lijf / og sneru vid aptur / og þesser komu aller med fride til Juda lande.

52 Og þeir * grietu Jonathan / z þa sem voru med hønū / z ottudust mió g / og Jsrael syrgde þunglega. * c.9/20.

53 Og aller heidingiar þar i krijngum̃ þa / leitudu epter ølldunges ad fordiarfa þa.

54 Þui þeir søgdu: þeir hafa eingan̄ stioornara edur hiælpara / so * vilium vier nu strijda a þa / og burttaka fra folkenu þeirra min̄ing. * Jer. 11/19.

XIII. Capitule.

Jonathans Daude / og Simons Tilkoma til Stioornaren̄ar.

Og Simon heyrde / ad Tryphon hafde safnad ein̄ stoorn̄ her / ad hn̄ villde koma til Juda lands / og aldeiles fordiarfa þad.

2 Og hn̄ sa / ad foolked var kuijdande z ottasleiged / og hn̄ foor upp til Jerusalem / z safnade foolke.

3 Og hn̄ æfijste þa / z sagde: þier vited / hvad miked eg og mijner brædur og mijns fødurs hus høfum giort fyrer løgmæled z helgedomana / og þau strijd og þær æingister er vier høfū sied.

4 Fyrer þess hlutar saker eru aller mijner brædur fallner / fyrer Jsraels skulld / z eg er eirn epter.

5 Og nu vere þad længt fra mier / ad eg skyllde spara mitt lijf / a øllum þessum þreingingar tijma / þui eg er ecke betre en̄ mijner brædur.

6 En̄ eg vil hefna mijn fyrer mitt folk og helgedoomana z vorar hustrur og børn / med þui * aller heidingiar eru saman̄safnader / ølldunges til ad fordiarfa oss fyrer fiandskapar skulld / * C. 12/53.

7 Og han̄ giørde þad / ad foolked kom til sialfs sijns aptur / i þui bile er þeir heirdu þesse ord /

8 Og þeir svørudu med stoorre raust / seigiande: Þu ert vor høfuds madr i Judæ og Jonathans þijns brodurs stad /

9 Fram̃fylg voru strijde / og allt þad sem þu seiger oss / þad vilium̃ vier giøra.

10 Og han̄ safnade øllum strijdsmøn̄unū til saman̄s / og flijtte sier ad fullkomna murana i Jerusalem / z styrkte hana allt um̃ kring.

11 Og hn̄ utsende Jonathan Abessolomi son / z med hønū eitt einvala lid * til Joppe / z burtrak þa / sem voru þar / z stadnæmdest þar in̄e. * c. 12. 33/34.

12 Og Tryphon for ur Ptolemais med stoorre magt ad koma til Judalands / og Jonathan var med hønum i vardveitslu.

13 En̄ Simon sette sijnar herbuder i Adida a mørken̄e /

14 Og Tryphon merkte / ad Simon være komen̄ i Jonathans sijns brodurs stad / og ad han̄ munde hallda strijd vid han̄ / og hn̄ sende sendeboda til han̄s / seigiande:

15 Vier hølldum Jonathan þijnū brodur fyrer þa peninga er hn̄ er skilldugur til konungsens rentu-huss af þeim lienum er hn̄ hafde.

16 So send nu peningana hundrad centener / og han̄s tvo sonu til gisla / ad han̄ skule ecke falla fra oss / nær hn̄ er orden̄ laus / og vier vilium giefa han̄ lausan̄.

17 Og Simon visse vel / ad þeir toludu vid hn̄ sviksamlega / z sende þo peningana og børnen̄ / so ad han̄ skillde ecke fa stoora ovinættu hia foolkenu / seigiande:

18 Af þui eg ei sende hønū peningana og børnen̄ / þar fyrer er han̄ lijflæten̄.

19 Og han̄ sende børnen̄ og hundrad centener / en̄ hn̄ hiellt ecke loforded / og gaf ecke Jonathan lausan̄.

20 Og þar epter kom Tryphon / til ad reisa um̃ landed z ølldunges ad fordiarfa þad / z han̄ um̃kringde veigen̄ / sem liggur til Adora / og Simon z hn̄s her for i moote hønum til hvørs stadar / sem han̄ for til.

21 Enn þr af slokenu sendu sende boda
til Tryphon/ ad hn̄ skillde flyta sier ad
koma til þra i giegnum eidemørkena/
og senda þeim vister.
22 Og Tryphon utbioo alla syna ridd-
ara/ ad fara a þrre somu nott / z þar
var miøg mikell snioor / og hann komst
ecke vegna þess sniovar/helldur for upp/
og kom til Galaaditis/
23 Enn s hn̄ nælægdest Baschama/drap
hn̄ Jonathan/ og hn̄ var grafenn þar.
24 Og Tryphon snere vid/z for burt
til syns lands.
25 Og Simon sende burt/og took Jo-
nathans syns brodurs bein/ z groof hn̄
i Modin/ i hn̄s fedra stad/
26 Og * allur Israel hiellt eina þun-
ga harmaklogun vegna hn̄s/z griet hn̄
langann tyma. * c. 12/ 52.
27 Og Simon * liet biggia eina bigg-
ing yfer syns fødurs og sinna brædra
grøf/ z giørde hana haa tilsyndar/
med fægudum steine fyrer framann og
aptann. * 1. Mos. 35/ 20.
28 Og hn̄ sette sio stoolpa þar uppa/
þann eina giegnt þm̄ ødrum/fyrer fød-
urenn z modurena/og þa fioora brædur/
og liet giøra frydar mynder a þeim.
29 Og hann liet setia stoora-pilæra i
kryng/ og liet giøra a pilærunum øll
herlyge/ til eins eilyfs nafns / z hiaa
þeim øllum herlygum/ skip/ sem vo-
ru utgrafenn / til ad siæst af øllū þeim
sm̄ sigla a hafenu.
30 Þesse grøf er su / sem hann giørde i
Modin/ allt til þessa dags.
31 Enn Tryphon umgieckst sviksam-
lega vid Antiochum/þann unga konung/
og i helsloo hann.
32 Og hann vard konungur i hn̄s stad/
z sette Asiæ koronu upp / og giørde
stooran skada i landenu.
33 Og Simon bigde festingarnar i
Judæa / z vardveitte þær med haum
turnū z føgrum murū z portū z staung
um/ og sette vister i festingarnar.
34 Og Simon utvalde menn / z sende
til kong Demetrius/ad hn̄ villde giøra
þad/ ad a þeim mætte hægiast i land-
enu/ þvi allar Tryphons athafner væ-
re eintomes ranskapur.
35 Og kong Demetrius sende bod til
hn̄s epter slyku ordum/og svarade hønum/
z tilskrifade hm̄ þvilykt eitt bref.
36 Kong Demetrius tilbydur Simon
þm̄ ypparsta preste og konungsens vin/
og þm̄ ellstu / og þvi Judaiska foolke
syna heilsan.
37 Þa gull-koronu/ og þann castaniu-
rauda klædnad/ sem þier sendud mier /
høfū vier medteked / z erum reidubun-
er/til ad giøra eirn goodann frid vid yd-
ur og ad skrifa befalingsmønnunum til
ad hægia a ydur.
38 Og hvad sem vier høfum stadfest
ydur/ þad er stadfast/og þær festingar/
sm̄ þier hafed bigt/skulu heira ydur til.
39 Og vier tilgiefum ydur yfersioner
og synder allt til þessa dags. Og su
krona sem þier erud skilldugar/z ef nock
ud annad skillde giefast til tolls i muster-
enu/ þad skal ecke giefast meir.
40 Og ef þar eru nockrer a medal yd-
ar hæfeleger til ad skrifast a medal
vor / þa meiga þeir innskrifast / z þar
vere fridur i millum vor.
41 A þvi hundradasta z siøtugasta æ-
re/var heidingiana ok teked fra Israel.
42 Og Israels foolk byriade ad skrifa
i handskriftunū og kaupbriefunum. a
þvi firstaære/ sem Simon er ypparste
prestur og strydsforinge/ z Judanna
høfudsmadur.
43 A þeim tyma sette Simon synar
herbuder vid Gaza/ og umkringde hana
med synum her / z giørde hervirke / og
færde þad til stadarens / og nidur sloo
eirn turn og inntook hann.
44 Og þeir fooru ut / sm̄ voru i þvi
hervirke/ i stadenn/z þar vard eitt stort
hæreiste i stadnum.
45 Og þeir sem voru i stadnum/ stigu
upp med husfrum og børnū / a murenn/
og * rifu syn klæde i sundur/ z hroop-
udu med stoorre raust/ z bædu Simon/
ad hn̄ villde giefa þeim frid/ * c.2/14.

46 Og sogdu: straffa oss ecke epter vor
um illskum/ helldur epter þinne myskun-
seme.
47 Og Simon aumkadest yfer þa/ og
stryddde ecke a þa/ helldur rak þa ut af
stadnū og hreinsade husen̄ / i hvorium
afguderner voru / z so kom han̄ þar in̄
med lofsaung og þackargiord.
48 Og hn̄ utkastade af hon̄ ollum o-
hreinleika/og sette þar men̄/s m̄ hielldu
logmaled. Og han̄ styrkte hn̄/og bygde
sier sialfū eitt heimile þar i.
49 En̄ þeir af slotenu i Jerusalem
hindrudust ad fara ut og in̄ i landed/ z
ad kaupa og ad selia/ z þeir lidu stoort
hungur / so ad þar fooruft marger af
þeim af hungre.
50 Og þeir hroopudu til Simonar/ad
þeir mætti fa frid / og han̄ gaf þeim
hn̄/og rak þa ut. Og hn̄ * liet hreinsa
sloted af saurgunum/ * c. 14/ 17.
51 Og hn̄ kom þar in̄ a þeim þridia z
tuttugasta deige i þm̄ odrum manade/
a þvi hundradasta z fyrsta og siotug-
asta are med lofgiord og palma-kvist
um/og med horpū/ z cimbalis/ og nab-
ler/ og lof-saungvū og kvædū / ad þar
være fordiarfadur eirn stoor fiandmad-
ur af Israel.
52 Og han̄ tilsette / ad madur skillde
hallda þan̄ dag arlega med glede.
53 Og hn̄ stirkte musteresens fiall/s m̄
var hia slotenu/og bio þar/ z þeir sem
voru med honum.
54 Og Simon sa Johan̄es sin̄ son/ ad
han̄ var fyrer man̄ / og sette han̄ til
hofudsman̄s yfer allan̄ heren̄/ og bioo
i Gazaris.

## XIV. Capitule.

### Simons Fridsamleg Stioornan.

Og a þvi hundradasta z odru z
siotugasta are/ safnade kong
Demetrius synum her/ z foor
til Medien ad æbla lids / ad
hn̄ kin̄e stryda a Tryphon.
2 Og Arsaces/konungurin̄ i Persia og
Media heyrde/ad Demetrius kiæme til
hn̄s takmarka / og han̄ utsende eirn af
synum hofudsmon̄um ad fanga han̄
lifande.
3 Og hn̄ foor burt / og sloo Demetriu
her/ og fangade han̄/ og færde han̄ til
Arsaces/ z sette hn̄ i fangelse.
4 Og Juda land var i kyrdum alla
Simons tyd. Og hn̄ leitade goods fyrer
sitt foolk / og hn̄s stioorn z hn̄s heidur
þocknadest þeim vel alltyd.
5 Og fyrer utan̄ alla adra syna veg-
semd/took hn̄ * Joppe til eirnrar hafn-
ar / z giorde þar in̄ eina leid þ eyarnar
i hafenu. * c. 12. 33/ 34. c. 13/ 11.
6 Og hn̄ giorde syns foolks endemerk-
ur vijdare/ z odladest landed med magt.
7 Og hn̄ safnade morgū faungū / og
vard herra yfer Gazaris og Bethsuris
og * slotenu/ z burttook þa ohreinu hlu-
te þadan̄ / og eingen̄ var/ sem sette sig
upp i moote honum. * c. 13/ 50.
8 Og þeir yrktu þeirra Jord med fri-
de/og Jorden̄ gaf sin̄ grooda/ z trien a
morken̄e þra avoxt.
9 Þeir gomlu sætu a gotun̄/aller tol
udu til samans um̄ gott/ z þr ungu men̄
færdu sig i vegsemder z stryds-klæde.
10 Han̄ fieck stodunum vister / og sette
þa i lag med verkfærū til festingar/so
ad hn̄s veglega nafn var nefnt allt til
Jardarin̄ar enda.
11 Han̄ giorde frid i landenu/ z Isra-
el gladde sig miog myked.
12 Og hvor sat under synu vyn-trie /
og synu fykiu-trie / z eingen̄ var / sem
hrædde þa.
13 Og hn̄/ s m̄ stryddde a þa/ var burt af
landenu / og konungarner voru odner
fordiarfader a þeim dogum.
14 Og han̄ stirkte alla þa lytelmoot-
legu a medal syns foolks / han̄ ransak-
ade logmaled / og burttook hvorn/ sem
var ranglatur z vondur.
15 Han̄ heidrade helgedoomana/z gior-
de helgedoomsens verkfare fleire.
16 Og þad heyrdist i Rom/ ad Jona-
than være daudur/z allt til Sparta/og
þr syrgdu miog.

17 Enn þegar þeir heyrdu/ ad Simon
hans brooder være ordenn ypparste prestur
i hans stad/ og hiellde landed z stadena
þar i.
18 Þa skrifudu þeir honum til a kopar-
toblur/ ad endurnyia vinskap vid hann/ og
þad * samband um samfielags-strijd/
sem hefde vered vid Judas z Jonathan
hans brædur. * c. 8/ 22. c. 12/ 1.
19 Og þær voru lesnar fyrer sofnud-
enu i Jerusalem/ og þesse er utskriften
af þvi brefe/ sem þeir * Spartanisku
sendu: * c. 12/ 2. etc.
20 Skioornararner i Sparta og stad-
num tilbiooda Simon ypparsta preste/ z
þvi odru Judaiska foolke/ þra brædrum/
þeirra heilsan.
21 Þeir sendebodar sem voru utsender
til vors foolks/ kunngiordu oss um ydar
vegsemd z heidur/ z vier vorum glader af
þeirra tilkomu.
22 Og vier hofum læted aptur skrifa
hvad sem var sagt af þeim i foolksens
raade/ a þenn ann hatt: * Numenius/ An-
tiochi son/ og Antipater/ Jasons son/
Judanna sendebodar komu til vor/ ad
endurnyia vinattu vid oss. * c. 12/16.
23 Og þad þocknadest foolkenu/ ad ta-
ka vid þeim monnum heidarlega/ og ad
setia eina utskrift af þeirra rædu i vor
ar stadar bækur/ ad foolked i Sparta
kunne hafa eina minning þar af. Enn ut-
skriftena þar af hofum vier skrifad Si-
mon þeim ypparsta preste til.
24 Þar epter sende Simon Numeni-
um til Rom/ sem hafde eirn slooran
skiolld af gulle/ uppa þusund miners
vigt/ til ad stadfesta samband um sam-
fielags-strijded med þeim.
25 Enn þegar foolked heyrde þad/ sog-
du þr: hvad skulum vier giefa Simon z
hans bornum aptur til þacklætes?
26 Þvi hann og hans brædur/ z hans fod-
urs hus/ hafa styrkt sig/ og hafa med
strijde burtreked Jsraels fiandmenn fra
þeim/ Og þeir stadfestu honum frijheit.
Og þeir lietu skrifa þad a kopar-tob-
lur/ og þær voru heingdar a pilara a
Zions fialle.
27 Og þesse er utskriften af þvi skrife
a þann ættunda deige i Elul/ a þvi hund
radasta odru z siotugasta are/ og þad
var þad þridia Simons ypparsta pre-
sts ar/ i Saramel/.
28 J prestanna z foolksens og stioorn-
endanna fyrer foolkenu/ og þra ellstu i
landenu/ i þeirra stooru samkomu/ gaf
hann oss þad til vitundar/ med þvi þar
hafde tijdum vered strijd i landenu.
29 Enn Simon Mattathie son/ sa af
Jaribs ætt/ z hans brædur hafa giefed
sig sialfa i hætta/ og sett sig i moote
þra foolks mootstondurum/ so ad þeirra
helgedomar z logmaled kunne ad halldast
vid/ z hofdu giort þeirra foolke mioog
miken heidur.
30 Og * Jonathan hafde safnad þra
foolke/ z var ordenn ypparste prestur/ og
var lagdur til sijns foolks. * c. 9/ 33.
31 Og þeirra fiandmenn villdu fara inn i
þra land/ ad fordiarfa þra land og ut-
rietta hendurnar yfer þra helgedooma.
32 Þa took Simon sig upp/ og haade
strijd fyrer sitt folk/ z kostade þar uppa
morgum penningum af sijnu eigenn/ z ut-
bioo strijdsmenn af hans foolke/ og gaf
þeim mala.
33 Og hann styrkte stadena i Judæa og
Bethsura/ sem laa vid Judææ tak-
mork/ hvar fiandmannanna strijdsvopn
voru fyrrum/ z hann sette þar vardhalld/
Judaiska menn.
34 Og hann styrkte Joppe/ sem laa giegnt
hafenu/ og Gazara/ sem laa vid Azoti
takmork/ þar sem fiandmennerner biu-
ggu fordum i/ hann liet Judana bua þar/
z hvern/ s hlijdde til þra riettre skick-
un/ skipade hann i þeim. * c. 13/ 48.
35 Og foolked saa Simons athofn z
hans heidur/ sem hann þeinkte ad giora
sijnu foolke/ z þeir settu hann til þeirra
hofudsmanns og ypparsta prests/ af þvi
hann hafde giort alla þessa hlute/ og þa
riettvijse z þa truskap/ sem hann hiellt
vid sitt foolk/ og leitadest vid i allan
mata/ ad upphefia sitt foolk.

36 Og

36 Og i hans tijd lucka dest þad fyrer hñs hendur/ad heidingiarner urdu burt rekner af þeirra lande/ og þeir sm̃ voru i Davids stad/þeir i Jerusalem/sem høfdu giørt sier sialfum eitt slot / af hvøriu þeir fooru ut/og saurgudu þad allt um̃ kring helgedoomana/ og giørdu stooran skada a þvi skyrlijfe.
37 Og hñ liet Judaiska men̄ bua þar/ og þeir styrktu þad til uggaleises fyrer landed og staden̄/og bigdu hærre mura i Jerusalem.
38 Og kong Demetrius stadfeste hønum þad ypparsta prestdæme epter þessum hlutum.
39 Og han̄ giørde hñ ad einū af sijnum vinū/og giørde hønum miøg stooran̄ heidur.
40 Þvi hñ hafde heyrt/ ad Judarner være kallader af þeim Roomversku vinner og medstrijdendur z brædur/ og ad þr hefde geinged i mote Simons sendebod um veglega.
41 Og ad Judunū og prestunū lijkade vel / ad Simon være høfudsmadur og ypparste prestur æfenlega / þar til þar kiæme * eirn trufastur spamadur.

* 5. Mos. 18/ 15.

42 Og ad han̄ skillde vera strijds foringe yfer þeim/ og hafa um̃sorgun fyrer helgedomunum/og setia þa yfer þra verk z yfer landed / og yfer vopnen̄/ og yfer festingarnar.
43 Og ad han̄ skillde hafa um̃sorgun fyrer helgedomunū/z hønū skillde veitast hlijdne af øllum/og øll skrif i landenu skilldu skrifast i hñs nafne/og han̄ skillde klædast purpura / og bera gull.
44 Og þad skillde ecke leifast nockrum af foolkenu eda prestunū/ad raska nockru af þeim hlutum / edur mootmæla þvi/ sem var sagt um̃ han̄/ edur kalla saman̄ foolked i landenu / fyrer utan̄ han̄/ edur ad * klædast purpura/ edur prijdast med gullspennum. * c.11/ 58.
45 En̄ hvør sm̃ giøre hier i moot / edur raske nockru af þessu/ skule vera sakfelldur.
46 Og øllu foolkenu lijkte vel/ ad þad skillde stadfestast / og þeir skilldu giøra epter þessū ordum.
47 Og Simon took vid þvi/og lijkade vel ad vera ypparste prestur og strijdsforinge og lands-høfdinge fyrer Judunum og prestunū / z standa fyrer øllum hlutum.
48 Og þr søgdu/ ad þetta skrif skillde setiast a kopar-tøblur / og man̄ skillde heingia þad upp i gangenū hia helgedoomunū / a eitt veglegan̄ sta:/
49 En̄ ad utskrifternar þar af skilldu leggiast i skatt-kistuna/ad Simon kun̄e hafa þær og hñs syner.

## XV. Capitule.

### Antiochi Otrigd vid Judana.

Og Antiochus/ kong Demetrii son/utsende bref af eyunum til hafenu/til Simonar prests z lands-høfdingia fyrer Judunum/og til alls foolksens/z þau in̄ehiellldu þessa meining:
2 Kong Antiochus tilbijdur Simon ypparsta preste og lands-høfdingia og þvi Judaiska folke heilsan.
3 Med þvi nockrerban̄væner men̄ hafa inteked vorra fedra rijke/ en̄ eg hefe viliad intaka rijked aptur/ad eg kun̄e koma þvi aptur i sitt firra stand/og hefe teked margt framande strijds-foolk/ og tilbuid herskip/
4 Og vil fara þar ut um̃ landed/ad eg kun̄e ad komast i fære vid þa/sm̃ hafa fordiarfad vort land / og lagt marga stade i eyde i rijkenu.
5 So stadfeste eg nu øll frijheit/ sem kongarner/ er voru fyrer mig/ unnu þier / og hvøriar adrar skeinkingar þeir veittu þier.
6 Og eg gief þier leife / ad sla eiged mynt fyrer þitt land/
7 Og ad * Jerusalem og helgedoomarner skule vera frij/ z øll vopn / sem þu hefur later tilbua/ z festingarnar/ sem þu hefur bigt/hvøriar þu helldur/skule vera þijnar. * c. 10/ 31.

8 Og øll konge-skyllda / og þad sem konungureñ skyllde hafa hier epter/ fra nu til eilijfrar tijdar / skal vera þier uppgiefed.
9 Eñ ef vier kuñum ad iñtaka vort rijke aptur/ þa vilium vier giøra þier ꝛ þijnu folke og musterenu miøg stoorañ heidur/ so ad ydar vegsemd skal vera op enber a allre Jørduñe.
10 A þvi hundradasta ꝛ fioorda ꝛ sio-tugasta are/ utkom Antiochus til siña fedra lands/ ꝛ allt strijds-foolked kom samañ til hñs/ so þar voru faer epter hia Tryphon.
11 Og kong Antiochus sokte epter hønum/ ꝛ hañ flijde / og kom til Dora/ sem er hia hafenu.
12 Þvi hñ sa / ad þar var hønū bueñ olucka / og strijds-foolked hafde yfer-giefed hañ.
13 Og Antiochus sette sijnar herbuder fyrer Dora/ ꝛ hundrad og tuttugu þu-sund strijdsmeñ med hønum / og atta þusund riddaralids /
14 Og hñ umkringde stadeñ/og skipeñ af hafenu komu/ ꝛ hñ þreingde stadnum til lands og til vatns / og liet aungvañ komast ut edur iñ.
15 Og * Numenius og þeir tveir sem voru med hønū / komu fra Rom / sem høfdu bref til konungaña ꝛ landsbigd-aña/ i hvøriū var so skrifad: * c.14/24
16 Lucius Fra Romversku borgmeist-are / tilbijdur kong Ptolomæo heilsan.
17 Judaña sendebodar eru komner til vor/ vorer viner og medstrijdendur/ ad end urnyia þa fyrre vinattu uñ samfielags strijd/ sem voru utsender af Simon þm̄ ypparsta preste/ ꝛ þvi Judaiska foolke.
18 Og þeir færdu oss eirn gull-skiølld uppa þusund miner.
19 So þocknadest þad oss/ ad skrifa til konungunū og landsbigdunum / ad þeir ecke stunde epter ad giøra þeim illt/ og ecke ad strijda a þa edur þeirra stade / edur þeirra land/ og ecke ad strijda med nockrum/ sem strijda a þa:
20 Eñ þad þocknadest oss/ ad taka vid þeim skillde af þeim.
21 Ef nu ad nockrer banvæner eru flu-ner fra þeirra lande til ydar/ þa skiled Simon þm̄ ypparsta preste þeim apt-ur/ ad hñ straffe þa epter Fra løgmale.
22 Og þad sama skrifade hñ til kong Demetrio / og Attalo / og Ariarathj/ og Arsaces/
23 Og til allra landa/ ꝛ eins til Sam sama / og til þeirra i Sparta / og til Delus ꝛ til Myndus / til Sicyon / og til Caria/og til Samos/ og til Pam-phylia/og til Lycia/og til Halicarnasse/ og til Rhodus/ og til Phaselis / og til Co/ og til Side/ og til Aradus / og til Gortyna / og Cnydus og Cypren / og Cyrene.
24 Eñ utskriftena skrifudu þeir til Simon þeim ypparsta preste.
25 Eñ kong Antiochus sette sijnar her buder fyrer Dora añad siñ / og neitte handaña sijfelldt i mooke heñe/ ꝛ giørde vijgvielar/og iñekrepte Tryphon/ad hñ ecke kiñe komast iñ edur ut.
26 Og Simon sende hønū tvø þusund meñ/eirvalda til ad strijda med hønum/ og silfur ꝛ gull/og verjur noogar.
27 Og hañ villde ecke taka vid þvi / helldur rastade øllu þvi/ sm̄ hañ hafde giørt sattmala uñ vid hñ fyruñ / og breck siñaskipte til hañs.
28 Og hañ sende Athenobium til hñs/ eirn af sijnum vinum / sem skyllde tala uñ vid hñ/ og seigia: þier hafed iñtek-ed Joppe/ ꝛ Gazara/ og sloted/sem er i Jerusalem/ mijns rijkes stade/
29 Þier hafed eydelagt þra takmørk/ ꝛ giørt stoorañ skada i landenu/ og giørt ydur ad herrum yfer mørgum stødum i mijnu rijke.
30 So skiled nu þeim stødum aptur / sem þier hafed iñteked/ og skattenū af stødunum / sem þier erud ordner herrar yfer/fyrer utañ Judææ takmørk.
31 Eñ vilied þier ecke/þa giefed þ þau fim̄ hundrud centener silfurs / og fyrer þañ skada er þier hafed giørt/ ꝛ skatt af stødunum/ øñur fim̄ hundrud cen-tener/

kener/ eñ ef þier ecke giøred þad þa vil-
ium vier koma fram/ og stryda a ydur.
32 Þegar Athenobius konungsens vin
ur kom til Jerusalem/ og sa Simons
vegsemd/ og hirdslur med gull-kierum og
silfur-kierum / z tilbuning nooganñ/ þa
forundrade hañ sig miøg/ z kuñgiørde
hønum konungsens ord.
33 Og Simon svarade z sagde til hñs:
vier høfum hverke iñteked framande lønd/
edur brukad magt yfer framande / helld
ur yfer vorra fedra arfe/ sem um nock-
urn tyma hefur med oriettc vered valld
tekeñ af vorum fiandmønnum.
34 Eñ þegar vier hofdum tyma þar
til/ tookum vier aptur vorra fedra arf.
35 Eñ hvørs þu beiddest / vidvykiande
Joppe z Gazara/ hafa þær giort stoor
añ skada a medal fooksens um vort
land / vegna þra viljum vier þo giefa
hundrad centener.
36 Og Athenobius svarade hønu ecke
einu orde. Helldur for burt med reide til
konungsens/ og kuñgiørde hønum þesse
ord/ z Simons vegsemd/ z allt þad sm
hñ hafde sied/ og konungureñ vard afar
reidur.
37 Eñ Tryphon stie a eitt skip / og
flyde til Orthosias/
38 Og konungureñ sette Cendebæum
til strydshøfdingia yfer þad land hiaa
hafenu/ z gaf hønum stryds folk foot
gaungu og riddaralid/
39 Og hañ byfalade hønum/ ad setia
synar herbuder framanvert hiaa Ju-
dæa/ og baud hønu ad biggia * Cedron/
z styrkia porteñ/ og ad hñ skillde stryda
a foolked/ eñ konungureñ sookte epter
Tryphon. * c. 16/ 9.
40 Og Cendebæus kom til Jamnia/
z tok til ad yfa foolked/ z fara iñ i Ju
dæa z taka folked fanged og drepa þa.
41 Og hañ bigde Cedron / og tilsette
þar riddara z strydsfoolk/ ad þeir skill-
du fara þar ut / og leggiast a veguna i
Judæa/ epter þvi sem konungureñ haf
de byfalad hønum.

## XVI. Capitule.

### Ptolemæi Mañdrap a Simon og hañs Sonum.

Og * Johañes foor upp fra
Gazaris / og kuñgiørde Si-
mon synum fodur/ hvad Cen-
debæus hefde allareidu giørt.
* C. 13/ 54.
2 Og Simon kallade syna tvo ellstu
sonu til syn/ Judam og Johañem / og
sagde til þeirra: eg og myner brædur z
myns fødurs hus høfum hæd Israels
stryd allt fra vorum ungdoome / allt
til þessa nærverande dags/ og þad luck-
adest fyrer vorar hendur / ad vier høfu
opt frelsad Israel.
3 Eñ þar eg er ordeñ gamall/ eñ þier
eirneñ fyrer Guds myskuñseme erud
komner noog til aara og alldurs/ þa skul
ud þier gaanga i miñ og miña brædra
stad/ og draged ut/ og stryded fyrer yd-
ar foolk / og su hiaalp af Himnenum
vere med ydur.
4 Og hañ utvalde af landenu tuttugu
þusund strydsmeñ / og nockra riddara /
og þeir fooru moote Cendebæo/ z laau
um nootteña i Modin.
5 Og þeir stoodu upp um morguneñ/ z
fooru a mørkena/ og saa/ þar kom eirn
stoor her i moote þeim/ fookgaungu og
riddaralid/ og þar var eirn lækur i mill-
um þeirra.
6 Og hñ sette synar herbuder giegnt
þeim / z hñs foolk/ og saa/ ad foolked
skrelfdest miøg/ ad fara yferum lækeñ /
og hñ foor fyrstur yferum / z meñ saau
hñ/ z fooru yferum epter hønum.
7 Og hñ skipte foolkenu/ og riddurun-
um midt a medal fookgaunguliðsens /
eñ fiandmañaña riddaralid var miøg
margt.
8 Og hañ * liet blaasa i þær heiløgu
baasunur/ z Cendebæus snere a flootta
og hñs her/ z þar fiellu af þm marger
særder/ og þeir epterordnu flydu til fest
ingareñar. * 4. Mos. 10/ 9.
9 Þa vard Judas Johañis brooder
særdur / eñ Johañes ellte þa / þar til
hñ kom til * Cedron/ sem hañ hafde

bigt. * c. 15. 39/ 41.
10 Og þeir flýdu til turnana/ sem voru
a Azoti økrum / og þeir brendu hana
med ellde / z þar fiell af þeim hier um
tvø þusund menn / og þeir sneru vid til
Juda lands med fride.
11 Og Ptolomæus Abubi son/ var sett
ur til strijds-høfdingia a Jericho mørk/
z hafde miked silfur og gull.
12 Þvi hann var þess ypparsta prests
maagur.
13 Og hans hiarta upphrokade sier/ og
hann hugde ad innkaka landed med magt /
og raadslagade med svikum moote Simon
z hans sonum/ ad raada þa af døgum.
14 Enn Simon foor um kring i stødun
um/ sem voru i landenu/ og hafde kost-
giæfelega umsorgun fyrer þeim / foor
ofann til Jericho/ hann og Mattathias /
Judas z hans syner/ a þvi hundradasta
z siøunda z siøtugasta aare/ a þeim ellef-
ta maanade/ hann er sa maanadr Sabbat/
15 Og Abubi son took a moote þeim
med svikum a slotenu/ sem kallast Dog/
sem hann hafde bigt / og giørde þeim
eitt stoort giestabod/ og hafde þar menn
i leinum.
16 Og þegar * Simon var druckenn /
og hans syner/ uppstood Ptolomæus / og
þeir sem voru med hønum / og tooku
þra vopn/ og yferfiellu Simon i giesta-
bodenu/ og sloou hann i hel/ og hans tvo
sonu/ og noekra af hans þienurum.
* 2. Sam. 13. 28.

17 Og hann framde stoora ofrigd / og
launade illu fyrer gott.
18 Og Ptolomæus skrifade þetta / og
sende til konungsens / ad hann villde senda
hønum strijds-foolk til hiaalpar/ og veita
hønum þeirra land og stade.
19 Og hann sende adra til Gazara / ad
raada Johannem af døgum / og sende bref
til þeirra yfer þusund / ad þeir skylldu
koma til hans/ ad hann villde giefa þeim
silfur og gull.
20 Og hann utsende adra ad innkaka Je-
rusalem og musteresens fiall.
21 Og þar hlioop eirn undann til Ga-
zara/ z kunngiørde Johanni/ ad hans fad-
er være lijflaatenn/ og hans brædur/ og ad
hann hefde ogso utsendt / (sagde hann vid
hann/) ad slaa þig i hel.
22 Og þegar hann heyrde þad/ vard hann
miøg skielfdur / og liet grijpa þa menn /
sem voru komner ad fyrerkoma hønum /
þvi hann visse / ad þeir leitudust vid ad
fyrerkoma hønum.
23 Og hvad sem framar var ad seigia
um Johannem/ og hans strijd z hans hrei-
ste verk/ sem hann giørde med hreiste/ og
bigging uppa murana/ sem hann bigde /
og hans athafner/
24 Sia / þad er skrifad i hans yppar-
sta prestskapar daga book/ fra þeim
tijma hann vard ypparste prestur
epter sinn fødur.

ENDER.

# Maccabæana Aunnur Book.

## I. Capitule.

Kyrkiu-Vijgslunnar Hætijd / og þess
heilaga Ellds Hættalag.

Brædrunum/ sem eru Jud-
ar i Ægyptalande/ heil-
son/ brædurner/ sem eru
i Jerusalem/ z þeir/ sem
eru i Judæa lande/ (oska
ydur) goods fridar.
2 Og Gud giøre ydur gott/ og * minn-
est sijns sattmaala/ sem var giørdur vid
Abraham/ Isaak z Jakob a medal sinna
trurra þienara. * 2. Mos. 2/ 24.
3. Mos. 26/ 42.
3 Og hann giefe ydur øllum eitt hiar-
ta/ ad dijrka hann / og ad giøra hans vilia
med einu stooru hiarta z viliugre saal.
4 Og uppliuke ydar hiarta i hans
løgmaale z i bodordunum / z giøre frid/
5 Og bænheire ydar beidslur / og frid-
þægest vid ydur / og yfergiefe ydur ecke

a einum vondū tijma.
6 Og nu erum vier hier/ og bidiū fyr-
er ydur.
7 Þegar Demetrius var konungur / a
þvi hundradasta nijunda og sextugasta
aare / skrifudum vier Judar ydur til/ i
þreingingu og hædstre neyd/ sē kom yf
er oss a þeim tijma/ epter þad Jason z
þeir sem voru med hōnū/fiellu fraa þvi
heilaga lande og rijke/
8 Og þeir uppbrendu ported / og ut-
helltu saklausu bloode / og vier bædum
Drottenn/ og hañ bænheyrde oss/ z vier
offrudum offre og hveite-miøle/ z tend-
rudū lampana/ z løgdum þau skodunar
braud fram.
9 Og nu bidium vier / ad þier villdud
hallda * laufskaala hatijdena/ i Caseleu
manade. * 1. Macc. 4/ 59.
10 A þvi aare/ hundrad aatta z aatta-
tigu/ vier i Jerusalem/ og i Judæa/ og
raaded / og Judas oskum Aristobulo
kong Ptolomæi skoolameistara / sē er
þo smurdur af prestaña ætt/ z Judum
um sē eru i Egyptalande/ lucku og vel
ferdar.
11 Med þvi vier erum frelster af Gude
ur storū haaska/ þockū vier hønum stor
lega/sem vier/er maattū veria oss i moo-
te konungenum:
12 Þvi hañ liet þa uppvella/sē strijd-
du i þeim heilaga stad:
13 Þvi þegar høfudsmadureñ var kom
eñ i Persia / og sa her med hōnū / sem
meintest ad vera oyfervinañlegur/ urdu
þeir slegner i Nanææ mustere/þa þeir
Prestarner fromdu svik/sē voru i kring
um Nanæa:
14 Þvi þegar bæde Antiochus/ og þr
sem voru med hønum komu/til þess stad
ar sem hañ villde bua med heñe / so ad
hñ kiñe ad taka peninga uppa reikning
fyrer heimañmund/
15 Og þegar Nanæi prestar høfdu
bored þa fram/ og hañ var geingeñ iñ
med faaeinum i gangeñ til capellunñar/
þa lokudu þeir capelluna.
16 Þegar Antiochus/ seige eg/var iñ-
geingeñ / upplukn þeir þeim laun dyrū
fyrer stallenum / og fleigdu grioote/og
grÿtttu foringiañ/og hiuggu þa i sticke/
z tooku høfudeñ af þeim / og køstudu
til þra / sem voru ute fyrer.
17 Vor Gud vere lofadz a allañ haatt/
sem * ofurselde þa ogudlegu so i burt.
* 1. Macc. 6/ 9. etc. 2. Macc. 9/ 5. etc.
18 Med þvi vier vilium * hallda must-
eresens hreinsan/ a þeim fimta og tutt-
ugasta deige i Chaseleu / meinkum vier
naudsynlegt ad vera / ad giefa ydur til
vitundar / ad þier skylldud ogso hallda
elldsens hatijd / sem laufskaalans / þa
Nehemias/ sem hafde bygt bæde must-
ered og altared / offrade slaatrunar-off-
re. * 1. Macc. 4/ 50.
19 Þvi þa vorer fedur voru flutter til
Persia / þa tooku prestarner / sem þa
voru gudhrædder/ * af altaresens ell-
de heimuglega / z foolu hñ i einū diup-
um holum bruñe / sem hafde botn fyrer
utañ vatn/hvar þr geimdu hañ vel/ so
eingeñ fieck þañ stad ad vita. * c. 2/ 1.
20 Eñ mørgum aarum þar epter / þa
þad Gude so sijndest/ad Nehemias væ-
re utsendur af konungenum i Persia /
sende hñ sømu presta afkomendur ept-
er elldenū / eñ sem þeir hafa tiaad oss/
ad þeir ecke hefdu funded elldeñ/helldur
þickt vatn / bad hañ þa ausa upp og
bera fram.
21 Eñ þegar slaatrunar-offrenu var
offrad/ byfalade Nehemias prestunum /
ad þeir skyllðu støckva a þad med vatn
enu / bæde a videñ og hvad sem var lagt
þar uppa.
22 Eñ þegar þad var giørt/ og nock-
ur tijme var lideñ / z þegar sooleñ skein
aptur/sem aadur var i einum skij-hnod
ra/ vard þar eitt stoort baal uppkveikt/
so alla forundrade.
23 Eñ prestarner giørdu bæn / þegar
offred uppbrañ / ja bæde prestarner og
aller / sem Jonathas byriade/ eñ hiner
adrer tooku under/so sē Nehemias.
24 Og bæneñ var a þeñañ haatt :
Drotteñ/ Drotteñ/ Gud allra Skap-

are/

